# Æfi-Agrip

## Fedganna:

# Jóns Péturssonar, Benedikts Jónssonar, Boga Benediktssonar og Benedikts Bogasonar.

Í Hjáverkum samantekid af
*Studioso* Boga Benediktssyni,
p. t. Yfir-Faktóri vid sál. Riddara O. Thorlacius's Erfingja Höndlun á Stykkishólmi, Ísafirdi og Búdardal, &c.

Deyr fé, deya frændur, deyr sealfur it sama,
En ordstyr, deyr aldregi, hveim er sér gódann gétr.
Háva-mál.

Videyar Klaustri, 1823.
Prentad af Faktóri og Bókþryckjara G. Schagfjord, á kostnad Rithöfundsins.



# Til Lesarans.

Skéd gétur ad mørgum, sem lesa þetta Rit, þyki þad fánýtt, fyrst þad er samid um Bændamenn; en vildu þeir gæta þess: ad gódir, duglegir og velþenkjandi Bændur eru landa og lýda øblugasta stytta, og ad flestir Valdamenn eiga kyn sitt ad rekja til Bændafólks, vænti eg mildra dóma á þessu fyritæki mínu.

J hverju helzt standi, sem madurinn er, kalla eg þann merkilegann og mikinn mann, sem breytir vel og nytsamlega í stétt sinni. Þeir, sem eru í háum valdum, hafa ad sønnu meiri tækifæri til ad koma fleiru gódu og nyt-

samlegu í verk, heldur enn hverr annar valdå-laus, þótt velviljadur sé; því bædi er þeirra framvørpum til margra hluta betur trúad, sem álþecktir eru ad vitsmunum, og settir eru í vøld af Konúnginum, þess vegna ord þeirra og skrif á hærri stødum gjørd ad álitum, líka hafa þeir meiti krapta til ad framfylgja því, sem þeir álykta; þó getur, svo ad segja, hverr Bóndamadur ordid nytsamur í manna samlífi, og í allra réttsýnnra manna augum mikils metinn, sem er velþenkjandi og rádvandur; stundar bú sitt eda verk med atorku og ydjusemi; lifir án óhófs eda svídíngs-háttar; stydur annara manna manndóms og nytsemdar vidburdi; vanrækir ecki ad auka uppfrædíngu sína og vísdóm, en velur med skynsemi þad besta af fornum og nýum reglum; því hverki eru þær gømlu né heldur enar nýu ætíd bestar. Um þvílíkann mann má med sanni segja: Farsæll er sá, sem ratar medalhófid.

Eg hefi í Riti þessu studt mig vid: a.) gamallra, frédra og sannordra manna søgn þar, sem eg er ecki sjálfur sjónar- eda heyrnar-vottur. b.) ýmsa Annála og Ritgjørdir fornar og nýar;

en þar, sem Ritum þeim, er eg hefi fyrir mér haft, bar á milli um áratolu, ellegar eg sjálfur er óviss um, hefi eg sett ordid: hér um, til athugasemdar lesendum edur þeim sídari Riturum, svo eg ekki villi þá.

Hafi þeir hálærdu menn, Doctr. Finnur Biskup Jónsson, Mag. Hálfdán Rector Einarsson og fleiri, sem líklega hafa haft bædi tíma til ad géfa sig alla vid lærdóms sókum, og líka bestu hjálpar medol, átt bágt med ad uppgötva sannindin í fráságnum eda ættartolum, hvad þá ekki eg? sem bædi vantar tómstundir ad leggja mig af alúd þar eptir, og líka nægar eda áreidanlegar Ritgjördir. Til athugasemdar í Gísla Biskups Jónssonar ætt, hefi eg talid born Arna Prests í Hvítadal, sem til giptínga komust *).

Margur mun segja þad óþarfa, ad telja ættir, þar margar séu ádur prentadar, og þad sé hverjum nærst, sem hann er sjálfur. Ad nockru leiti játa eg þetta satt; en mín meiníng er: a) Ættvísi er fródleikur fyrir sig, sem

*) Sjá Gjessings Jubilærers I. Deel, Pag. 146.

ecki ætti med öllu ad týnast frá Londum vorum, og Ættartölur eru ecki í hvers manns hendi, sem Þær girnast, og Þess vegna hefi eg uppteiknad svo margskyns Ættqvíslir, ad lysthafendur fengju Þar frá rakid Ættir sínar. b.) Um Þá, sem ecki hirda um ad vita ætt sína edur annara, mætti segja hid gamla málтæki: Misere senescit, qvi se nescit; og ef menn hirda um kynferdi dýranna til undaneldis, Því skyldu menn Þá ecki hirda um sitt eda síns egin afqvæmis?

Eg geng vakandi ad Því, ad villur kunni ad finnast í Þessum Bæklíngi, einkum í sumum ættlidum og ártolum, og væri mér Þad mikilvæg Þénusta, ef lærdir Landsmenn mínir, sem hafa stundad Þessháttar vísindi — af hverjum eg heyri, medal annara, nafntogada: Jón Sýslumann Espólín hinn Fróda, og Þann hálærda Steingrím Prófast Jónsson í Odda, hverra gódvildar og lidsinnis eg hefi ecki gétad adnotid vegna fjarlægdar — vildu uppteikna Þær sonnu villur og senda mér Þeirra leidréttíngar, hverjar eg vildi Þá láta prenta, svo Þær

sídar medfylgi Bæklínginum*); en þad tel eg lítinn lærdóm einúngis ad finna ad en leidrétta ecki. Um Ættlidina, sem ádur er sagt, og einkum Hirdstjóranna Vigfúsa og Ivara Hólm, er eg nockud tvílrádur, vegna þess lánga tímabils, sem þeirra hirdstjórn yfirgrípur; þó gæti þad þannig heimkomist: ad Ivar Hólm, sem kom inn med Hirdstjórn 1307 (og sídar giptist Ástu), hafi þá verid hér um 14 til 16 vetra, og þá hann deydi 1371, verid um áttrædis aldur. Sonur hans, Vigfús Hólm, sem deydi 1407, hefdi ecki þurft ad verda mjøg gamall; hans born held eg Ivar Hólm, sem 15 vetra vard Hirdstjóri 1405, og — máské eptir ad hafa mist Gudridi konu sína, og lofadur Sophíu Loptsdóttur eda henni giptur — féll í Kirkjubóls-brennu 1433, hefdi hann þá átt ad hafa 3 vetur ens 5ta tugar. Vigfús Hólm, er seinna vard Hirdstjóri, gétur og stadist ad hafa verid bródir téds Ivars; en hitt er aug-

---

*) Eptir bón undirskrifads, hefir nú Hra. Prófastur Steingrímur Jónsson yfirlesid Handrit þetta, og á nockrum stødum inní þad bætt sáciunum réttíngum og athugasemdum. M. St.

ljóst, ad Margrét, sem komst úr brennunni, var systir Ivars, sem þar féll; hana held eg dóttur þess fyrra Vigfúsa Hólms, fædda einu ári fyrir andlát hans edur 1406, hefdi hún þá átt ad vera 27 ára í brennunni, því hún deydi áttræd 1486. Ad menn nú á tímum reikna 30 ára tímabil fyri hvern mañ, er mjøg brygdult, sem sjá má af Ritlíngi þessum, þar Brokeyar Jón var fæddur 1584, en Sonar-sonur hans deydi 1803; nær þá þeirra 3gja Fedga tíd yfir 219 ár, sem eptirkomandi tídar menn kynnu álíta ósatt, ef þad ná ecki ritad væri af þeim, sem fyri sér hafdi órækar ástædur.

Minn óvandada stýl í Riti þessu vil eg ecki í forsvar taka, en hygg hann Londum mínum audskilinn, þó finnast kunni einstöku fornyrdi; en til málbóta ósimleika mínum, minnist eg ens forna máltækis: fár er smidur í fyrsta sinni. Sætu Landsmenn mínir fengid nockurn leidarvísir í Fodurlands Sögunni af Ritlíngi þessum, teldi eg ómaki mínu vel varid.

Stýckishólmi, þann 16da Febr. 1823.

Ritføfundurinn.

# I.
# Frá Brokeyar Jóni.

Ofanverdri 16du Öld, þá er Gudbrandur Þorláksson héldt Biskups-stól ad Hólum, en Gísli Jónsson ad Skálholti, bjó í Héradi því á Vesturlandi, er Arnarfjördur heitir, Bóndi sá, er Pétur nefndist og var Pétursson. Árid 1584 — þad sama, sem Biblían kom fyrst út prentud frá Hólum — fæddist tédum Bónda Sonur, er Jón hét, sem uppólst um hríd med födur sínum.

Pétur Bóndi og enskur Skipherra nockurr vóru miklir mátar; seldi Pétur því þessum vini sínum Son sinn Jón til fósturs og umönnunar, var hann þá 7 vetra. Fór Jón med honum árid 1591 til Englands og ólst þar upp vid sjóferdir og kaupmannsskap til síns 18da aldurs árs, undir umsjá Fóstra síns, sem þá deydi. Jón tók sér þá far, árid 1602, med

Enskum til Íslands, hafdi gódann kaupeyri, verdsladi hér um sumarid og veiddi marga Fálka, en sigldi um haustid aptur til Englands og verdsladi þar voru sinni. Fálkana vildu tveir Adalsmenn kaupa, en sá þeirra, sem betur baud, fékk þá alla mjøg dýrkeypta; hinum gramdist þetta og sat um líf Jóns, svo hann sá þann kost bestann ad leigja 2 málamenn (Soldáta) til vaktara, vogadi heldur ecki ad haldast þar lengur vid. Þá er skip gengu um vorid 1604 frá Englandi til Íslands, tók hann sér far med einhverju þeirra; vard vel reidfari, og kom skip þad á Breidafjørd. Jón rádstafadi kaupeyri sínum, sem var mikill — því madurinn var ordinn stóraudugur ad lausafé — og tók sér adsetur á Hólmlátri á Skógarstrønd.

Þá bjó Ari á Dúnki í Hørdudal Gudmundarson á Dúnki, Bjarnasonar á Dúnki, Gudmundarsonar, Laga-Finnssonar, á Økrum Péturssonar*); hann var í heldri bænda røð og vel fjádur; Dóttir hans hét Ragnheidur, sem þókti þá med helztu bændadætrum. Þessarar meyar fékk Jón, gjørdi bú

*) Bjarni Gudmundarson á Dúnki var bródir Dada bónda í Snóksdal. St. J.

1805 á Hólmkátri, og bjó þar um hríd, uns hann fluttist búferlum á Brokeyu, hvar hann bjó til daudadags. Jón gjørdist brátt mikill búsýslu-madur, og þókti í þá daga einhverr hinn besti Bóndi í Þórness-Þíngi; kom hann á miklu ædarfugls varpi í Brokey, sem vidhéldst lengi sídan; var hann líka sá fyrsti hér vestra, sem tók ad hreinsa ædardún, og kom fyrst slétt-dals og sídan eins ríkisdals Specie verdi á hvert pund, en ádur seldist óhreinsadur dún eptir Búaløgum. Jón Bóndi var gódur smidur, Fálkafángari og dugnadar madur. Hann skildi þýdverska, en taladi vel enska og danska túngu, las og skrifadi og reiknadi vel, sem þá þókti gód ment. Karlmenni var hann ad afli og vexti. Af því hann bjó lengst æfi sinnar í Brokey, var hann kénndur vid hana, og á seinni tímum kalladur Brokeyar Jón. Hann átti 3 Konur og med þeim 27 børn*); hann lifdi allar konur sínar, en átti 2 børn á

*) Jón og Ragnheidur áttu eitt barn, sem dó skømmu seinna enn módirin, erfdi svo Jón 10 hundr. í Dúnki, og 5 hundr. í ødrum jardarparti, og seldi þau Eggert Jónssyni. Seinasta kona Jóns hét Gudrún Oddadóttir, þeirra børn: Margrét, Oddi, Jón, Benedikt, Ragnheidur, sem øll giptust. Sr. J.

milli qvenna, og eitt þá hann hafdi 2 vétur ens 9da tugar, en ári seinna edur 1667 deydi hann*). Tólf áf bœrnum Jóns bónda Péts ursſonar nádu fullordins aldri. Enn í dag eru bædi mikilmenni og vesælmenni af honum komin, sem hér er oflángt upp ad telja.

## II.

## Frá Benedikt Jónssyni.

Eitt barna ádurnefnds Brokeyar Jóns hét Benedikt; — nockrir segja: þad eina lifad hafi af Jóns seinustu konu bœrnum, en módirin dáid af barnsfœrum†) — (sjá nótu bls. 11.)

Þegar Benedikt var borinn 1658, hafdi Brokeyar Jón fjóra vetur hins 8da tugar.

*) Adrir segja hann dáinn 86 ára gamlann 1672. St. J.

†) Eg veit ecki med vissu þeirrar hans konu nafn og enn sídur ætt. Nockrir segja: hún hafi heitid Gudrún Arnadóttir, en Gudrún Oddadóttir hafi verid midkona Jóns, og hann átt med henni

Sagt er: ad Arni Jónsson bóndi í Hrappsey (nákominn náúngi módur Benedikts, ef ecki fadir hennar) hafi tekid Benedikt frá skírn til fósturs, en 14 árum þar eptir vard tjédur Arni brádqvaddur vid fiski-ródur á Breidasundi [2]). Lítinn tíma þar eptir dvaldi Benedikt í Hrappsey, til þess hann fór í Brokey [3]) til Gríms Jónssonar Lögsagnara Ös-

---

hér um 19 börn, en med sinni fyrstu konu 7 börn. (sjá nótu bls. 11.)

[2]) Þegar hann, med vinnumönnum sínum, var undir vad setstur, kom hann tvisvar í flydru og misti hennar í hvorttveggja sinn; í þridja sinni þegar flydran kom vid hann, hneig hann af formanns þóptunni örendur. Hásetar nádu flydrunni, og færdu hverttveggja heim.

[3]) Um þessar mundir átti Brokeyu Eggert Björnsson kalladur hinn Ríki, sem borinn var hér um 1600; bjó fyrst á Bæ á Raudasandi; giptist 1633 Valgérdi dóttur Gísla Lögmanns. Fékk veittann sér vestari part Bardastrandar Sýslu 1636. Fluttist sídar ad Skardi á Skardsströnd — sem hann med mörgum fleiri eignum erfdi eptir Dada bónda Bjarnason módur-födur sinn — og deydi þar 1681, yfir 80 ára gamall.

Börn Eggerts og Valgérdar, sem til fullordins aldurs komust, vóru:

urarsoñar einnig Løgsagnara um tíma í Barðastrandar Sýslu. Tiedur Grímur, sem var

---

1.) Gudrún eldri, sem giptist 1675 Birni Sýslumanni syni Gísla Magnússonar á Hlídarenda, hvar Gudrún bjó eckja, og deydi þar barnlaus 1724, þá um 88 ára gömul, en Bjørn deydi 1679. Bjó á Saurbæ á Raudasandi.

2.) Helga eldri bjó lengi ógipt á eignar-jørd sinni Dagverdarnesi á Skardsstrønd; deydi barnlaus 1729, þá um 88 ára gømul.

Gudrún yngri giptist 1689 Gudmundi á Alptanesi, syni Sigurdar Løgmanns. Þeirra børn: a) Frú Þórunn módir Frúr Sigrídar á Videyu. b) Eggert fadir Þóru, módur Ragnheidar, módur Kaupmanns Gudmundar Schevings. c) Kristín, d) Margrét, e) Sigrídur. Gudmundur á Alptanesi deydi 1716, en Gudrún yngri deydi níræd 1746.

4.) Arnfrídur, giptist 1675 Þorsteini syni Þórdar Prests Jónssonar á Hýtardal og Hjørseyar Helgu, dóttur Arna Løgmanns Oddssonar (Arnfridar arfur var Skard á Skardsstrønd med fleiri eignum, og þángad flutti Þorsteinn sig frá Hrafnabjørgum eptir Eggerts andlát). Þeirra børn (sjá 31tu Skiríngar grein). Þorsteinn deydi 1700, en Arnfrídur 1726.

5.) Helga yngri, giptist 1687 Gudmundi syni Þorleifs Løgmanns Kortssonar. Helga erfdi

Fálkafángari, hafdi átt Margrétu hálfsystur (alsystur, sjá nótu bls. 11) Benedikts, og ad

Brokeyu og lángt fleiri eignir eptir foreldra sína. (Sagt er hún hafi erft 100 eyrkatla sinán og stóra, þar af marga á leigustødum, en Gudmundur hafi átt 40, alla med goblum). Gudmundur og Helga bjuggu fyrst á Narfaeyri, sídan rak Gudmundur, undir dúns-afdráttar yfirskini, Grím Fálka-fángara burt úr Brokeyu, og flutti þángad siálfur. — Því Eyan þókti i þá daga flestum ofgód til ábýlis, vegna þess mikla ædar-varps, sem Brokeyar Jón hafdi þar á komid. — Grímur Fálkafángari flutti sig þá ad Dagverdarnesi á Skardsstrønd, hans sonur var Grímur Løgsagnari á Eilá, fadir Halldóru, módur Kétils sál. Melsteds, etc. Gudmundur Þorleifsson Ríki átti 4 dætur, sem allar deydu í stóru bólu 1707. Sú eldsta var þá trúlofud Oddi Løgmanni Sigurdarsyni, og í því skini mun Gudmundur Ríki hafa géfid Oddi Løgmanni Narfaeyri, hverri hann þó seinna aptur nádi. Og þar Gudmundur var barnlaus, testamenteradi hann, skømmu fyrir sinn dauda, Amtmanni Fúhrmann alla sína fiármuni; og, sama giørdi Helga kona hans. Gudmundur var haldinn madur fésastur og hard drægur; má og vera, þad sé ordum aukid; því hætt er opt vid, ad alþýdu dómur láti ecki ríka menn, þó réttvísir séu, njóta sannmæla, ef

Brokeyar Jóni ondudum, fengid til ábýlis Brokeyu. Fá ár var Benedikt í Brokeyu vid bágann adbúnad, til þess Grímur lédi hann fjádum, barnlausum bónda, Bjarna á Geitar-eyum, til fyrirvinnu; kom Benedikt sér þar svo vel, ad Bjarni þessi gaf honum töluverda fjármuni, en lifdi sjálfur skammann tíma þar eptir. Benedikt gaf sig þá til lausamennsku, og tók Fálka á vetrum fyrir Grím mág sinn; en litlu sídar fékk Benedikt algjörlega Fálka-sýslu, og var á vetrum á ýmsum stödum vid

---

þeir ausa ecki sé sínu út á bádar hendur, en lá þeim þó ef fé þverrar. Gudmundur deydi 1720, en Helga yngri kona hans 1729, þá hér um 77 ára gömul, barnlaus. Eggerts og Valgérdar börn deydu um og innan tvítugs aldur; Elín heitstúlka Gudbrands Magnússonar 1658, Gísli 1660, Dadi og Ragnheidur 1664.

Eggert Ríki tjáist ad hafa eptirlátid 5 dætrum sínum í arf í fasta gótzi tólf hundrud hundrada og ellefutíu og tvö hundrud betur, en í lausafé þaradauki fimm hundrud hundrada. Mesti ríkdómur Eggerts var af erfdum, fyrst eptir módur sína Sigrídi, þar næst eptir Dada módur-födur sinn, svo eptir Björu fódur sinn, og med testamenti, fjármuni Þorsteins Ríka á Narfaeyri sem deydi sama ár og Eggert.

þeim veidiskap, og grœddi fé mikid. Einhvern vetur hafdi hann adsetur sitt hjá gódum bónda, Dada á Galtardalstúngu, en Kristín, dóttir bónda, úng og gjafvaxta, var látin þjóna honum. Til hennar felldi Benedikt ástarþocka og tók hana til ekta, þegar hann var hér um hálf-þrítugur. Skømmu þar eptir reisti hann bú á nýkeyptri jørd sinni Heidnabergi á Skardsstrønd. Gjørdist Benedikt brátt mikill búsýslu- og besti búsœldar-madur. Þá er hann hafdi nockur ár búid á Heidnabergi, flutti hann sig búferlum á Hrappsey, sem þá var í litlu áliti. Brádt vard hann þar mikill audmadur, og bjó þar sídan alla œfi. Þeim Benedikt og Kristínu vard audid þriggja barna, sem á legg komust, er hétu: Þorsteinn, Steinun, Elín[4]).



[4]) Þorsteinn fórst med 3ur ødrum mønnum vorid 1721, á tvítugs aldri, fyrir sunnan Snæfells-Jøkul í fiska ferd, á því stóra flutninga skipi, er Gudmundur Ríki á Brokey hafdi átt.

Steinun giptist sídar Gudmundi Bjarnasyni frá Arnarbœli, bjuggu þau á eignar-jørd sinni Galtardalstúngu; þeirra son var Þorsteinn á Arnarbœli.

Þá er þau Benedikt höfdu med farsæld saman búid um 34 ár, misti hann þessa sína konu árid 1718; var hann þá um 56 ára aldur; bjó hann svo um hríd eckjumadur.

Magnús er madur nefndur Þorkéllsson, Gudbjartssonar Prests i Laufási, Ásgrímssonar, Gudbjartssonar, Vermundarsonar úr Færeyum, en módir Magnúsar var Þórdís dóttir Sigurdar á Svalbardi. Ektaqvinna Magnúsar var Kristín dóttir Eyólfs Riddara Arnfinnssonar Riddara. Magnús var mikill höfdíngi, bjó á Skridu í Reykjadal, en héldt Vadla Sýslu; þeirra son var Jón á Svalbardi, er átti fyrr Ragnheidi Péturs-

Elin giptist og sídar Gudna Presti Jónssyni, sem féck Ingjaldshóls Þing 1713; deydi 1746. Þeirra dóttir Kristín, fyrri kona Asgeirs Prófasts Jónssonar á Stad í Steingrímsfirdi. Þeirra børn: a) Snæbjørn Stadfeld, Dr. Juris, Jústitzráð og Borgmeistari í Randers á Jótlandi. b) Jón Prestur í Ingjaldshóls Þingum. c) Solveig ektaqvinna Bjørns Prests Benediktssonar í Hýtardal. d) Sigrídur ektaqvinna Asgríms Prests Vigfússonar í Hellna Þingum. Benedikt var enn sonur Gudna Prests og Elinar, hann sigldi, vard Akurekkju-madur á Sælundi, giptist og jók þar ætt sína.

dóttur, Loptsſonar, Ormsſonar, Loptsſonar ens Ríka. Þau áttu ſaman mørg børn; þeirra ſynir vóru: Sigurdur Sýſlumadur og Klauſturhaldari á Reiniſtad, Jón Løgmadur, Stadarhóls Páll og Magnús, er lengi bjó ad Øgri vid Iſafjørd. Magnús giptiſt 1565 ſini ſídari konu Ragnheidi, dóttur Eggerts [5])



[5]) Eggert fadir Hanneſar Hirdſtjóra, en afi Eggerts Hannesſonar Løgmanns, var Løgmadur í Víkinni i Norvegi; féck ſitt Adals-bréf 1488, en ſonur hans, Eggert Løgmadur, Stadfeſtingu þar uppá 1551. Eggerts ýngra Hannesſonar módir var Gudrún eldri, dóttir Bjørns Sýſlumanns Gudnaſonar ad Øgri og Þóru laundóttur Bjørns Ríka Þorleifsſonar frá Skardi. Eggert tjáiſt ſtrax í úngdæmi ſínu ad hafa verid madur ſkarpur, ófyrirlátſamur, fédrægur. Hann giptiſt Sigrídi, dóttur Þorleifs Grímsſonar á Mødruvøllum og féck med henni mikid fé. Eggert héldt fyrſt Beſſaſtadi og Gulbringu Sýſlu, en 1548 Þorſkafjardar Þíng, og 1550 Iſafjardar Sýſlu. 1551 til 1554 var hann Fullmektugur Hirdſtjórans P. Hvítfelds. Um þad leiti hafdi hann Helgafells, og ſumir ſegja: Þingeyra Klauſtur áſamt Videyu og bjó ad Neſi vid Seltjørn; þar miſti hann konu ſína og ſídan barn

Lögmanns Hannessonar, þá hún var innan tvítugs alders, en hann kominn á fimmtugs

Þeirra, svo erfdi hann allt fé hennar. Med Cecilíu Jónsdóttur fylgikonu sinni, sem hann lét þá vera rádskonu í Videyu, átti Eggert fjögur börn, Jón, Björn, Þorleif og Ragnheidi, sem fæddist 1548. 1554 vard Eggert Lögmadur sunnan og vestan, þá Erlendur sleppti. 1555 flutti Eggert sig frá Nesi ad Bæ á Raudsandi (þá hann og tók Bardastrandar Sýslu), en Björn bródir hans frá Bæ, ætladi aptur ad flytja sig ad Nesi sjóveg og týndist á leidinni í vedri. 1556 tók Eggert Lögsögn nordan og austan. 1558 héldt Eggert bædi Snæfellsness- og Isafjardar-Sýslur. 1560 endadi hid mikla þras Eggerts og Arna Gíslasonar um Vatnsfjardar mál. Þad ár arfleiddi og Eggert vid Núps kirkju í Dýrafirdi sín fjögur börn, hvar af Björn og Þorleifur deydu nockrum árum sídar. 1563 samdi Eggert Lögmadur um fé Dada í Snóksdal vid Hofudsmanninn P. Stigsson, med 500 rdla bótum. Um þessar mundir er og af sumum skrifad, ad Eggert hafi um tíma haldid Stranda Sýslu. Hann hafdi átt í þrasi vid ýmsa menn, einkum Orm Lögmann Sturluson. 1578 var hann fángadur í Bæ og ræntur, en sydra útleystur af dóttur-manni sínum og fleirum; yfir þessum útlendu ræníngjum nádi hann skiar hefnd. Leidur af þrasi

aldur. Þau áttu mørg børn saman; eitt þeirra hét Jón, er fyrr nefndist Yngri, en sídar var

og vonar-veikur um sigur vid Orm Logmann, sem þá hafdi mikla Konúngs hylli, sigldi Eggert alfarinn til Hamborgar 1580. Þá gaf hann Ragnheidi dóttur sinni allt sitt jarda-góts, sem var sjö hundrud hundrada og þrjátíu hundrud betur, auk þeirra Loggjafa, sem hann gaf Olafi Björnssyni sonar syni sínum, er var. Lambeyri, Sudureyri og hálfur Sellátur. Jón Murti sonúr hans, sekur um víg Jóns í Sídumúla, var ádur sigldur til Hamborgar, þar átti Eggert mikil andæsi, sem haldin vóru tvøfold vid það, er hañ fékk Ragnheidi dóttur sinni. Í Hamborg deydu bádir þeir Fedgar.

(Nockrir skrifa, þá Eggert var komiñ ad Bæ, hafi hann tekid til ekta Steinunni dóttur Jóns á Svalbardi, sem fyrst var barna módir Björns Prófasts Officialis á Melstad Jónssonar Biskups Arasonar, en sídar giptist Olafi Jónssyni — þeirra dóttir Gudrún, ektaqvinna Hannesar Björnssonar á Snóksdal — og þau Eggert hafi ecki lengi saman búid, því Steinunn hafi flutt ad Snóksdal til dóttur sinnar).

Magnús sonur Jóns á Svalbardi fécк fyrst til ekta Elinu Jónsdóttur Sturlusonar, og þá er mælt hann hafi haldid hálfa Þíngeyar Sýslu. Ecki áttu þau Magnús og Elin Erfíngja, sem

kalladur Jón Dan; var hann í sinni tíd hald-inn mikill hefdíngi á Vestfjördum, en ecki hafdi hann Konúngs sýslu. Þá bjó ad Eyri vid Seidisfjörd Gudmundur Helgason, rík-ur merkis-bóndi; Ragnhildur og Jngveldur hétu dætur hans; Ragnhildar fécк Gísli Arnason frá Hlídarenda, en Jngveldar tjed-ur Jón Dan, sem þá settist ad Eyri og gjørd-

---

á legg komust. Þá Magnús misti Elinar hér um 1565, fécк hann Ragnheidar, dóttur Eggerts Lögmanns, med tilstyrk Páls bródur síns, einninn Jsafjardar Sýslu; gjørdist hann þá mikill Höfd-íngi og vinsæll. Þau Ragnheidur áttu saman 11 børn, sem til aldurs komust, er frá þeim kom-in mikil og kynsæl ætt. Þá Eggert sigldi alfar-inn, fécк Magnús Bardastrandar Sýslu og flutti ad Bæ á Raudasandi. Magnús var spakur madur ad viti, gott skáld og stjórnsamur dugnad-armadur; vóx honum vinsæld, audur, vald og höfdíngsskapur því meir, sem hann lifdi lengur. Magnús deydi 1591. Þá var Ragnheidur kona hans 42gja ára, og lifdi Eckja med sæld og blóma þar eptir í 50 ár (deydi 1642 þ. 6ta Aug. á 93ja — adrir segja 98da — aldurs ári), og eptirlét børn-um sínum fjármuni uppá níu hundrud hundrada.

Ad skíra frá voldum, velgeugni og fjølmennum Afkomendum Magnúsar og Ragnheidar barna, leyfir ecki rúm þessa ritkorns.

ist mikill hefdíngi, en deydi 1651. Börn þeirra Jóns vóru: Sigrídur[6]), Gudrún[7]) og Bjarni, sem framadist utanlands og gjørd-

[6]) Sigrídur fékk Jón yngri Egilsson frá Geitisskardi; þeirra dóttir Arndís, ektaqvinna Jóns Prests Eyjólfssonar elldra á Gilsbacka; þeirra børn: Jón Prestur á Gilsbacka og Sigrídur kona Halldórs Prests Einarssonar; Halldór, Jón, Gudmundur og Ragnheidur vóru enn Sigrídar børn.

[7]) Gudrún giptist 1633 Gudmundi syni Ásmundar Prests Þormódssonar frá Hvammi í Nordurárdal. Þeirra dóttir Oløf átti Magnús Sýslumann á Eyri í Seydisfirdi (deydi 1704, 87 ára) Magnússon Sýslumanns í Bardastrandar Sýslu (deydi 1675) Jónssonar ellra, Sýslumanns Magnússonar á Øgri.

Børn Magnúsar og Olufar fyrrnefndrar vóru: a.) Jón, fékk Ingibjargar dóttur Páls Prests Bjørnssonar í Selárdal; þeirra dóttir: Oløf, ektakona Sigurdar Sýslumanns Jónssonar á Hvítárvøllum. b.) Ingibjørg, giptist Halldóri Presti Pálssyni frá Selárdal, barnlaus. c.) Jón annar á Sveinseyri, átti Ingibjørgu Jónsdóttur frá Laugalandi, þeirra dóttir Oløf, átti Bjørn son Halldórs Prests frá Selárdal, barnlaus.

ist mikilhæfur madur. Hann feck Ingibjargar [8]) Pálsdóttur, og bjó ad eignarjørd sinni Hesti í Ønundarfirdi. Þeirra sonur var Bjarni, fæddur 1639, sem barnúngur var til menta settur í Skálholts Skóla [9]), sigldi síd-

[8]) Ingibjørg var, systir Gunnars Prófasts Páls-sonar á Gilsbacka og Gudrúnar, Lángømmu Biskups Olafs Gíslasonar.

[9]) Veturinn 1650 saunst í Skálholts Skóla Rúnaqver med 80 svokølludum galdrastøfum. Vóru 13 Skólapilltar hafdir fyrir sök hérum. Í þessara tølu vóru: Bjarni frá Hesti og Einar Gudmundsson frá Straumsfirdi, hverjum, ásamt hinum ódurtøldu, var vikid frá Skóla. Bjarni og Einar sáu sér, eptir þeirrar tídar máta, litillrar uppreisnar von hér á landi á þeim málum, en þóktust lítid hafa afgjørt, sigldu því bádir nockrum árum seinna af landi burt til Englands, hvar bádir vóru mørg ár í førum til ýmsra landa, og æfdu um leid Kaupmannskap og Vísindi ýmsra túngna, komu og stundum á sumrum til Íslands med verdslun sína. Eu árid 1667 kom Bjarni Bjarnason alfarinn til Íslands í Austfjørdum, var hann þá ordinn vel efnadur af peníngum og svokølludum fínum, cúskum vørum; feck hann sér þá hesta og leidtoga vestur til Fødur síns og settist ad búi med honum. Einar félagi hans hafdi látist í Englandi.

an til Englands, en kom út híngad ad mørgum árum lidnum, og fékk til ekta Gudnýu dóttur Hákonar Arnasonar, Sæmundssonar, Arnasonar, Gíslasonar á Hlídarenda og Gudrídar, dóttur Gudmundar Prófasts Einarssonar á Stadarstad, og reisti bú á ódals jørd sinni Hesti, hvar hann bjó um hríd. Bjarni átti og fleiri jardir, medal hverra Arnarbæli, Kjarlakstadi og Emburhøfda í Dala Sýslu. Héldt hann betra sudur þar, og rédst því í ad gjøra sér stórann byrdíng (skútu) af rekavidi, færdi þar á mestalla sína dauðu aura (en lét smábúr medfylgja), og med konu sinni, børnum og hjúum gékk á þetta skip vorid 1688, fór fyri framan Vestfjarda skaga og Bjargtánga, yfir Látra røst og inneptir Breidafirdi til Bjarneya, og þadan upp Kross-sund ad Arnarbæli í Dala Sýslu[10]). Bjarni var Løgsagnari Páls Løgmanns Vídalins í Dala Sýslu um 2 ár 1696—97 og opt vidridinn málaferli manna. Sídan bjó Bjarni alla æfi í Arnarbæli og þókti marg-

[10]) Sjóferd sú þókti lengi mjøg fræg á opnu skipi, svo lángann og hættusamann veg, nærsinn mæliflig beina línu millum Ønundar- og Breidafjardar.

fródur og gefugur madur; hann deydi 1723 á 84da alduts ári. Börn Bjarna og Gudnýar vóru: Gudmundur[11]) Gudlaug[12]), Sigrídur[13]), Ingveldur[14] og Hákon[15]), sem til aldurs komust,

Benedikt bóndi á Hrappsey fann, hversu erdugt honum veitti, eldrudum manni, ad búa med rádskonum; tók hann því þad rád, ad bid-

11) Gudmundur giptist sídar Steinunni Benediktsdóttur á Hrappsey, bjuggu þau á eignarjørd sinni Saltardalstúngu. Þeirra børn vóru: Þorsteinn á Arnarbæli, Hákon, Bjarni (sjá 4du Skíringargrein, bls. 17).

12) Gudlaug giptist Hannesi Þórdarsyni af Snókedals ætt. Þeirra børn: Þorbjørg og Valgérdur. Þorbjørg giptist Ara Teitssyni Arasonar Sýsslumanns. Þeirra børn: Teitur, Þórunn, Elín. Aptur giptist Þorbjørg Gudmundi Pálssyni á Snókedal; þeirra børn: Olafur Snogdalín og hans systkyni.

13) Sigrídur giptist Jóni Løgréttumanni Olafssyni á Grímsstødum, sem skrifad hefir Annálinn.

14) Ingveldur giptist Benedikt á Hrappsey.

15) Hákon deydi í Skálholts Skóla, átti þó eina dóttur, ad nafni Lísibeth, er giptist Løgréttumanninum Halldóri Jónssyni.

ja sér til handa velættadrar, efnagódrar heimasætu, Ingveldar dóttur Bjarna á Arnarbæli, og ektadi hana árid 1722, þá hann hafdi hér um fjóra vetur ens sjounda tugar; tókust brádt med þeim gódar ástir. Á ödrum missirum, edur 1723, var þeim borinn sveinn, sá er hlaut Boga[16]) nafn. Ólst hann upp lengst af í foreldra húsum[17]), og var einka eptirlætis

[16]) Skipari, sem hefir skrifad sig Boy Steffensen, færdi morg ár í sífellu skip til Stykkishólms; hann var aldavinur Benedikts á Hrappey, fékk honum árlega í hendur nockra verdslun sín vegna, og færdi honum hvad hann girntist af útlendskum vörum. Skiparinn qvadst vera Eckjumadur eptir tvær konur, med hverjum sér hefdi ecki ordid barna audid; en spádi, ad Benedikt — sem þá var Eckjumadur — mundi aptur giptast, og bad, ef svo færi og hann ætti þá sveinbarn, ad láta heita sínu nafni. Boy var þá ordinn svo gamall madur, ad hann lét af förum. Hitt rættist, Benedikt giptist sídar, lét son sinn nefna vinar síns nafni, og skrifadi honum þad til Kaupmannahafnar, hverr þá sendi nafna sínum 40 vættir í ýmsum þarflegum hlutum og óskadi honum sinnar glæfu.

[17]) Vinkonur miklar vóru þær Katrín Björnsdóttir á Stadarfelli og Ingveldur módir Boga, vildi Katrín hafa tekid drenginn sér til skémtunar,

sonur módur sinnar. Þá er Bogi var 9 vetra, var honum komid ad Skardi[18]) til Bjarna Sýslumanns Pétursonar, hvers kénari, Magnús Þorvaldsson, sem átti ad kénna Boga bóknám, heldt hann svo hardt, ad hann lærdi eckert til nota, en féck vidbjód á lærdómi. Þar eptir var Bogi vid bóknám á Helgafelli um tíma úr 2ur vetrum; en af því hann á þeim aldri var sjálfrádur látinn og eptirlætis barn foreldra sinna, vildi hann ecki leggja á sig ad læra látínska túngu.

Þegar Benedikt var 7tugur ad aldri, týndist Magnús Capitainn Arason[19]) vid

þá Stjúpdóttir hennar, Frú Gudríður, var þegar, frá henni, hjá hverri hann svaf þann eina vetrartíma, sem módir hans mátti med illslitrum af honum sjá, og þess naut Benedikt sonur hans sídar í Skálholts Skóla.

[18]) Stuttann tíma var Bogi á Skardi, frá Jólaföstu til Jóla og aptur frá Jólum til þess feint á Þorra. A Helgafelli féll Boga vel, þá hann part úr tveimur vetrum í samlisi vid þá úngri syni Snorra Prófasts, Jón og Gísla, nam þad piltum var tídt á hans aldri, og var þá álitinn gáfadur og sinnugur piltur.

[19]) Þad skédi nærri vid þurrt land þann 19da Januarii 1728.

Grappseyu. Þegar Benedikt hafdi um 15 vetur búid med þessari sinni sídari konu, í far-sæld og unadsemd, létst hún snegglega um sum-arid 1737[20]), til stærsta harmis ektamanni og syni hennar, hverjir þá vóru í kaupstadar-ferd, þókti þeim bádum mjøg dauflegt heim ad koma og hofdu lángann harm eptir hana. Þá hafdi Benedikt 9 vetur ens 8da tugar, en Bogi var 14 vetra. Benedikt héldt samt bú á Grappseyu, eptir konu sína látna, um 9 vet-ur, en á 8da ári ens 9da tugar andadist hann í Grappsey árid 1746, og var heilsugódur madur fram til síns dánar-dægurs. Benedikt var medalmadur á hæd, þyckvaxinn, kraptagód-ur, ecki andlits frídur, en þó karlmannlegur, mikill glímu- og skák-madur. Hann var svo

[20]) Þad ár fór Benedikt med vinnumonnum sín-um til Grundarfjardar Kaupstadar ferd, og lofadi syni sínum Boga med. Kona Benedikts Ing-veldur bad hann fara várlega, qvadst hrædd um þau mundu ecki sjást aptur lifandi. En svo bar vid, ad hún fór ad rifja tødu fleck á túninu hjá bænum, settist nidur og leid yfir hana, en rakn-adi ecki vid til þessa lífs. Ingveldur var fyri-mannleg kona, í lægra lagi medal qvenumadur á hæd, en þreckvaxin; hún var ør ad fé og mikil búsýslu- og gódgjørda kóna.

mikill audmadur, ad þad var sem sær gengi á land[21]); keypti hann bædi fyrr og sídar mikid jardagóts og borgadi þad vel. Hann var einhverr þinn mesti framqvæmdar-, fyrisjónar- og búsýslu-madur; reglusastur og vandlátur, ad allt færi med snidum á heimili sínu; hann var þrautgódur, jafnadargjarn og mikill mannasætta frumqvødull[22]). Benedikt var mikid gódmenni og frændrækinn mjøg, kom hann mørgum af hálfsystkynum sínum og þeirra afkomendum til gódrar menníngar, var annars gódviljadur vid alla, or af fé og veitíngasamur á heimili. Lengstum æfi sinnar hafdi hann Fálka-

---

[21]) Þá Benedikt var úngur drengur, var honum eptirlátinn ardur af fyrr og sídar ónýtum hólma; en hann vard á stuttum tíma hladinn ædar varpi. Þessi hólmi var af honum tekinn og sengiun aftur, og fór þad á sømu leid, og svo fór enn hid þridja sinn; eins þegar hann átti rád á meiru, vard hans útvegs-hlutur optarst drjúgari enn annara, ad jøfnum tilkostnadi.

[22]) Nærri honum búandi bændur løgdu smá-þrætur undir hans mat; og hvørnig hann, ásamt Ormi Sýslumanni Dadasyni, gat lempad missætt Bjarna Sýslumanns Péturssonar og sumra barna hans, er enn þá nockrum hér ecki ókunnugt.

sýslu, og var eins heppinn í því fyritæki, sem ödru[23]). Mikid vel ræktadi hann varpfugla, og hann kom fyrstur ad Hrappsey gódu ædarvarpi[24]). Flestum vinnumönnum sínum, sem honum þókti mannsmót ad, gaf hann 5 til 10 hundr. til búss; sumum hjálpadi hann ad eignast bújardir sér til handa[25]). Ecki var Bene-

---

[23]) Dæmi uppá audsæld Benedikts er þetta eitt: eptir þad hann kom í Hrappsey, lét hann helzt vinnumenn sína taka Fálka; þá var Sigurdur Ormsson, Fadir Orms, sem nú býr á Fagradal, hans helzti vinnumadur og smidur; hann var formadur og fór med bát Benedikts eptir vorKrossmessu þegar úr Drirvík kom. Sigurdur fécк gódann hlut af fiski, en í landlégunum 19 Fálka (þar af 4 alhvíta) á Ellidaeyar bjargi.

[24]) Vid túnfót á Hrappsey er stór hóll, kalladur Alfhóll; á hóli þessum fékk Benedikt 1800 ædaregg ja í bestu leit; enda var þá allt tekid, sem fannst, og var þar þá mesta og besta varpid, en lítid annarstadar.

[25]) Adurnefndum Sigurdi gaf hann ad sínu hálfa fremri Lángey, er sú sama Eya enn þá í eigu Orms sonar hans. Benedikt þókti Sigurdur merkilegt bónda-efni. Fleirum gaf Benedikt Jardagótz.

dikt sérlegur lærdóms madur, þó kunni hann bædi ad lesa, skrifa og reikna, sem þókti fremd í þá daga.

# III.

## Frá Boga Benediktssyni.

Bogi misti Ingveldi módur sína — sem ádur er sagt — þegar hann var á sínu 14da ári; eptir þad var hann ýmist í Hrappsey med födur sínum, eda hjá Bjarna Sýslumanni á Skardi, opt í hans útréttíngum og jarda afgjalda tekjum, en á stundum sem þénari hans á ferdum med sjálfum honum; fór svo fram uns Bogi var 16 vetra.

Stadarhóls Páll[26]), bródir ádurnefnds Magnúsar Jónssonar á Ögri (sjá bls. 19),

[26]) Páll tjáist ad hafa verid mælskur, vitur og vellærdur madur, einkum í lögum, kappsamur, áræðisfullur, mikill fjárgjætslu madur og midl-

féck Helgu dóttur Ara Lögmanns Jónsonar Biskups Arasonar. Þeirra sonur var Pétur

C

úngi gódgjarn. Þegar hann bad Helgu og féck þad svar: ad hún skyldi giptast honum, ef þad litist jafnrædi: lét hann Þorberg Bessason, er þá hafdi Sýslu í Vødlu Þingi, dæma sig heñar jafnrædi á Skridu í Hørgárdal 1556. Bjuggu þau fyrst á Eyrarlandi, átti Helga þá jørd, sídan á Helgastødum eda Einarsstødum Hér um 1560 flutti Páll sig ad Stadarhóli, þá hann med útsiglíngum og mikilli fyrirhøfn hafdi Stadarhól frá Geistlegum unnid, og medfram frá Dada í Snóksdal. 1566 keypti hann Reykhóla af Þorleifi Presti Bjarnasyni; í konu sinnar arfs skini nádi hann Mødruvøllum, og margar fleiri jardir keypti hann. Hann hafdi um tíma ýmsar Sýslur, en þá hann héldt Isafjardar Sýslu, var hann af Isfirdíngum ásakadur vegna løgleysu fyrir Brøstrup Gedde, hvers Umbodsmadur reid vestur í Vatnsfjørd 1596 ad átelja hann; en Oddur Biskup nærverandi géck á milli, svo Páll lofadi leidréttíngu. Páll sigldi af landi 9sinnum, optarst í málavafstri. Ecki var ástúdlegt med þeim Helgu, og vildi Páll skilja vid hana, stefndi heñi því til Alþingis fyrir 12 (adrir segja 18) sakargiptir, og skildi vid hana ad bordi og sæng. Páll var optarst á Reykhólum eptir þad hann eignadist

á Stadarhóli, sem haldinn var mikill höfdíngi og ríkur madur á sínum dögum. Hann átti Þorbjörgu dóttur Bjarna Prests Högnasonar og Ingibjargar Vigfúsdóttur, Þorsteinssonar, Finnbogasonar Lögmauns[27]); þeirra

þá, og þar deydi hann viku fyrir Páska um midsmorguns skeid 1598, á 63ja alldurs ári.

Helga Aradóttir ólst upp á Grund eptir dauda Födur síns, hjá Þórunni Födur systur sinni; þókti hún brellin í uppvexti sínum. Ordugt atlæti er mælt hún hafi átt hjá Páli, enda ecki verid honum ástúdleg. Þau Páll áttu þrjú börn saman, sem á legg komust: Ragnheidi, módur Gissurarsona og Biskups Brynjólfs, Elínu, sem giptist 1586 Birni Syni Benedikts Ríka á Mödruvöllum (honum vóru þá talin 4 hundrud hundrada, en henni 2 hundrud hundrada); þeirra sonur var Magnús Lögmadur, mesti Ríkismadur og Höfdíngi Nordanlands á sínum dögum. Pétur var eñ sonur Páls og Helgu; en laundóttir Páls hét Ingibjörg, hennar féck Eyólfur á Ballará Einarsson.

[27]) Pétur á Stadarhóli hafdi ecki Kongs Sýslu; hann deydi 1621, átti þá eptirlifandi tvö börn: Bjarna og Helgu, sem giptist Sigurdi, syni Jóns Prests á Ljósavatni, þeirra dóttir Þorbjörg, bjó á Gardi vid Slateyardal. En Jón

9 [illegible] Stadarhóli [illegible] 1517
[illegible] Þor[illegible]
[illegible]

sonur var Bjarni elldri á Stadarhóli, lengi Sýslumadur í Dala Sýslu; hann ektadi Gudrúnu dóttur ens hálærda Prests í Hvammi í Hvammssveit, Torfa Finnssonar frá Flatey, Jónssonar, Bjørnssonar, Þorleifssonar Hirdstjóra Bjørnssonar Riddara ríka [28]);

C 2

Pétursson á Vatnshorni, var laungétinn; giptist hann Sigrídi dóttur Sigurdar Prests Finnssonar á Miklahólti; þeirra dóttir Ingibjørg, módir Jóns Løgsagnara í Ljár-skógum, Fødur Arnórs Sýslumanns í Borgarfirdi, etc.

[28]) Bjarni Pétursson á Stadarhóli giptist 1641, og vard sama ár Sýslumadur í Dala Sýslu, hverri eg meina hann hafi ecki algjørlega sleppt, fyrr enn 1688, en frá 1681 var hann sjálfur ecki, aldurs vegna, fær til Þíngreida eda Dóma ad gánga; en þessir þéntu Þá sem Løgsagnarar:

1.) Magnús Jónsson (Fadir Assessors Arna), vard Prestur á Ovennabrecku 1658, misti Prestskap hér um 1667, vard Løgsagnari í Dala Sýslu 1682; sigldi ásamt þremur ødrum uppá Taxtann 1683; kom út sjúkur, var fluttur til síns heimilis og deydi 1684.

2.) Sigurdur Gíslason, settur þá Magnús sigldi 1683, en deydi 1688.

3.) Bjørn

3.) Björn Jónsson (keypti 1680, fyrir Jardirnar Géldíngalæk, Kaldadarnes og Kéldulæk í Mýrdal, alls 64 hundrud, af Sýslumanni Jóni eldra Vigfússyni jordina Stadarfell í Dala Sýslu), bjó þar sídan og var Lögságnari 1686, fékk konúnglega Veitíngu fyrir Sýslunni, eptir Andrés, og deydi seint á árinu 1695.

Andrési Andréssyni var af Konúngi veitt Dala Sýsla 1688, en tók Snæfellsness Sýslu eptir Magnús Lögmann Jónsson 1694, deydi 1696. Medan Andrés héldt Dala Sýslu, hafa sem Lögsagnarar Dóma dæmt: a.) Hákon Arnason á Vatnshorni 1688, og b.) Sigurdur Pálsson 1689 og 1691. Bjarni Sýslumadur á Stadarhólt héldt og um tíma þridjúng af Stapa Umbodi; hann deydi yfir grædt 1693. Bjarni var lærdur madur í sinni tíd, hefir skrifad Tractatum de hæreditate ab intestato og fleira júridiskt. Med Gudrúnu dóttur Gísla Prests á Hrafn-gili Jónssonar, átti hann laundóttur er Herdís hét; hennar fékk Hákon Arnason, Gudmundssonar, Þórdarsonar Lögmanns, bjuggu þau á Vatnshorni í Haukadal, þeirra sonur Jón á Vatnshorni, fadir Helgu á Jörva, módur Jóns á Vatnshorni, födur Rannveigar (húsfreyu Jóns Sýslumanns Espólíns) og hennar systkyna. Launsonur Bjarna og Gudrídar (Gudbjargar) Háris-

fékk Þorbjargar [29]) dóttur Jóns Sýslumanns Vigfússonar í Lögmannshlíd; þeirra sonur

---

dóttur hét Sigurdur, hann var fadir Kolbeins, födur Páls, etc. Ingibjörg var enn laundóttir Bjarna; til hennar hafa margir kyn sitt ad rekja.

[29]) Módir Þorbjargar var Helga dóttir Magnúsar Arasonar, Magnússonar frá Ögri; en Jón fadir Þorbjargar var sonur Vigfúsa Jónssonar, Sigurdarsonar frá Reinistad. Módir Vigfúsar var Þorbjörg Magnúsdóttir. Ektaqvinna Vigfúsar var Gudrún, dóttir Halldórs Lögmanns Olafssonar. Þorbjörg Jónsdóttir kona Péturs var mesta höfdíngs og gérdar kona; lifdi hún lengi eptir Pétur bónda sinn, og deydi 1754, þá er hún var 93 ára.

Jón Magnússon á Svalbardi.

| | | |
|---|---|---|
| Sigurdur á Reinistad. | Magnús á Ögri. | Páll á Stadarhóli. |
| Jón Lögm. Sigurdarson. | Ari á Ögri. | Pétur Pálsson. |
| Vigfús Jónsson. | Magnús Arason. | Bjarni Pétursson. |
| Jón Vigfússon. | Helga M. d. | |

Þorbjörg Jónsdóttir — Pétur Bjarnason

Bjarni Pétursson á Skardi.

Pétur Bjarnason, ektamadur Þorbjargar, bjó lengst á Tialdanesi; hann hafdi ecki Konúngs Sýslu, en var haldinn höfdíngs madur og stóraudugur í sinni tíd; hann deydi 1718.

var Bjarni[30]), sem fyrst reisti bú á Stað=

[30]) Bjarni yngri Pétursson er borinn 1681; reisti bú á Staðarhóli um tvítugs aldur, en 1704, þá hann fékk Elínár Þorsteinsdóttur *), flutti hann sig að Skarði á Skarðsströnd, erfða jörð konu sinnar. 1708 var honum veittur suður partur Barðastrandar Sýslu, hverjum hann sagði af sér 1718. Bjarni deyði 15da Apr. 1768, var hann þá 87 ára gamall. Bjarni var á sínum midaldri talinn ríkasti maður hér vestra; hann var fríður sónum, mikill Höfdíngi að orlæti, en vegna þegnskapar eyddist honum fé; Skrifari var hann góður, einkum á breytta stafi. Hañ þókti á stundum stórgérður við Öl; en þó annars vel viti borinn Stór-höfdíngi. Með konu sinni, Elínu Þorsteinsdóttur (sem deyði 1746), átti hann þessi born, sem til aldurs komust: I.) Valgérði, hennar fékk Þorsteinn Sýslumaður á Mórydarhvoli; þeirra dóttir var Sigríður, ektaqvinna Jóns Sýslumanns Jónssonar, en móðir: a.) Gudbrands, constit. Sýslumanns í Barðastrandar Sýslu, er fékk Kristínar, dóttur Gísla Prests í Selárdal. b.) Ragnheiðar, er giptist Conrector Helga Sigurðarsyni, þeirra born: Sigríður, Þorsteiñ, Helga. c.) Jóns að Skálholti, sem opt hefir verið Lögsagnari í Árness Sýslu, og fékk Höllu Magnúsdóttur,

*) Báðir Svilarnir, hann og Brynjólfur Þórðarson Thorlacius, héldu brúðkaup sitt undir eins; taldi Bjarni sér í fostu og lausu 13 hndr. hndr., en Brynjólfur 9 hdr. hndr. St. J.

þeirra born: Helga, Jón, Magnús, Þorsteinn. d.) Valgérdar, sem fyrst giptist Dr. Hanneß Biskupi Finnssyni, sídan Steingrími Prófasti Jónssyni á Odda; hennar born á lífi med sál. Hannesi Biskupi: 1.) Jón, kallast Finsen, Cancellí Sekreteri, giptur. Barn: Hannes Valgard Steingrim 2.) Olafur, kallast Finsen, nú Sýslumadur í Kjósar- og Héradsdómari í Gulbríngu-Sýslu, giptur Maríu Möller, þeirra barn: Hannes Christian Steingrim. 3.) Þórun, gipt Bjarna Amtmanni Thorsteinssen. Barn: Finnur Vilhelm. 4.) Sigrídur, ógipt. En med Steingrími Prófasti einn son, ad nafni Hannes. c.) Margrétar, sem er ógipt. II.) Eggert, sem féck Ragnheidar, dóttur Þórdar Prests á Vollum í Svarfadardal, Oddssonar í Holti. Þeirra born: a.) Jón Prestur Höfde, Atteslatus, fyrr á Holti í Onundarfirdi, sem féck Gunnhildar, dóttur Hákonar Prests Snæbjørnssonar frá Alptamýri. Þeirra born: 1.) Eggert, Prestur í Skards Þíngum, féck Gudrúnar, dóttur Magnúsar Sýslumanns Ketilssonar. 2.) Ragnheidur, gipt Studioso og Kaupmanni Jóni Kolbeinssyni á Styckishólmi. Þeirra sonur: Pétur, Studiosus. 3.) Valgérdur, gipt Sigmundi bónda Magnússyni á Akureyrum. 4) Gudrún, ógipt. b) Ragnhildur Eggertsdóttir, giptist Magnúsi Sýslumanni Ketilssyni. Þeirra born á lífi: 1.) Skúli Sýslumadur í Dala Sýslu, féck Krist-

inar Bogadóttur frá Hrappsey; þeirra börn eru: Ragnhildur, Kristján, Kristín. 2.) Sigmundur, bóndi á Akureyum, gódur smidur, fékk ádurnefndrar Valgérdar Jónsdóttur; þeirra börn á lífi: Valgérdur, Þorbjörg, Helga, Ragnheidur, Sigrídur, Gudrún, Christiana, Rögnvaldur, Jón. 3.) Karitas, giptist fyrr Gullsmid Vigfúsa Fjældsted; þeirra börn: Andrés og Eggert. Sídar giptist Karitas Páli bónda Benediktssyni, Lísta- og Lagamanni; þeirra börn: Þorsteinn, Ingibjörg, Gudrún. 4.) Ragnheidur, gipt Birni bónda Einarssyni á Dagverdarnesi; þeirra börn: Benjamín, Stephán, Jakob, Karólína, Ragnhildur, Ragnheidur. 5.) Jón, Prestur til Hvamms í Nordurárdal, fékk Gudrúnar, dóttur Gudmundar Sýslumanns Kétilssonar, eiga börn saman. 6.) Gudrún, hennar fékk Eggert Prestur Jónsson í Skards Píngum (fyrr talinn); þeirra synir: Jón og Fridrik, bádir nú Stúdentar, Stephán vid Silfursmídi, Torfi vid Lærdóm. 7.) Sigrídur, í Kaupmannahöfn, ógipt. 8.) Helga, gipt Eggert Gullsmid og Umbodshaldara, syni Gudmundar Sýslumanns Kétilss.; eiga börn saman. 9.) Elín Eggertsd., vitskérdt, deydi barnlaus. III.) Torfi, vard Prestur í Ingjaldshóls Píngum, deydi barnlaus. IV.) Karitas, giptist Þorsteini bónda Pálssyni í Búdardal, deydi barnlaus. V.) Þorbjörg, giptist Eggert Presti Ormssyni ad Sel-

Þórdarson deydi[31]), hvers dóttur Elínar

árdal, syni Orms Sýslumanns Dadas.; þeirra börn: a.) Eggert, ad Saurbæ á Raudasandi, fèck Arnfrídar Brynjólfsd. frá Fagradal; þeirra börn: 1.) Þorvardur, enn ógiptur. 2.) Þurídur, átti Eggert bónda Pálsson á Heggstödum. 3.) Jóhanna, átti fyrr Þórarinn bónda, en sídar Eggert, son Jóns Prófasts Ormss. b.) Ragnheidur, giptist Jóni Próf. Ormss. (fyrrtöldum); þeirra börn: 1.) Dadi, Skólalærdur, giptur Sigrídi Þórodsd. 2.) Eggert, giptur Jóhönnu (fyrrtalinni) Eggertsd. c.) Bjarni, Capellán hjá Födur sínum, giptist Gudrúnu, dóttur Brynjólfs frá Fagradal, deydi barnlaus. d.) Torfi, Capellán í Flateyar Þíngum, fèck Ragnhildar, dóttur Jóns og Jóhönnu, Orms Sýslumanns döttur Dadasonar, deydi barnlaus. VI.) Brynjólfur, fèck Ingibjargar, dóttur Páls Prests á Melstad Jónssonar (bródur Magnúsar Lögm.); þeirra dætur, a.) Elín, átti fyrr Markús Prest Páls., en sídar Magnús Sýslumann Ketilsson; hún barnlaus. b.) Arnfrídur (fyrrtalin), átti fyrrnefndann Eggert á Bæ. c.) Gudrún (fyrrnefnd), átti fyrrtalinn Capellán Bjarna. d.) Jórun, ógipt, barnlaus. VII.) Þrúdur, fyrsta kona Boga í Hrappsey; þar um meira sídar.

[31]) Þórdur Prestur í Hýtardal, sonur Jóns Prófasts samastadar, Gudmundssonar frá Hvoli og Gudrídar Gísladóttur Lögmanns Þórdarsonar,

hann fêck; eitt þeirra barn var Þrúdur, sem vard fyrir reidi födur sins, og flutti ad Dagverdarnesi undir skjól Hrappseyar fedga.

---

Lögmanns Gudmundssonar, fêck Hótardal 1634, giptist Helgu Arnadóttur, Lögmanns Oddssonar 1642; var hún þá 17 vetra. Þau vóru mestu Höfdings-hjón og vel vid efni. Þórdur Prestur deydi 1670; bjó Helga þar eptir i Hjörtsey, nafnfræg rausnar- og örlætis-kona; hún deydi 1693. Börn þeirra vóru: I.) Gudrídur, ektadi Jón Sýslumann Vigfússon yngra, er sídar vard Hóla Biskup; þeirra börn: a.) Þórdur, Prófastur á Stadarstad, átti 7 börn med konu sinni. b.) Gísli Stúdent í Máfahlíd, frá honum er komin mikil og kynsæl ætt; hann fêck Margrétar Magnúsdóttur Lögmanns. c.) Vigfús á Leirá. d.) Magnús, Skólameistari í Skálholti, barnlaus. e.) Þórdýs, seinni kona Magnúsar í Brædratúngu; áttu börn. f.) Sigrídur, giptist Magnúsi Björnssyni; áttu börn. g.) Sigrídur yngri, giptist Biskupi Jóni Vídalín; barnlaus. h.) Helga, vard tvígipt*). II.) Þorsteinn, fyrst bjó hann á Hrafna.

*) Hún var fyrst kona Vigfúsa á Hofi á Höfdaströnd, Gíslasonar, Vigfússonar; þeirra börn: Jón, Reinistadar Klausturhaldari, og Gudrún módir Sýslumannanna Davíds og Vigfúsa Schévings og þeirra systkyna; sídan kona Sýslumanns J. M. Spendrups, létu ekki börn eptir. St. J.

Bogi að Hrappsey var bráðþroska og snemma fullorðinn til krapta og framsýni. Af málafé móður sinnar hefðu honum hlotnast Kjarlaksstaðir og Emburhöfði. Þá Bogi var 16 vetra reisti hann bú á Kjarlaksstöð-um árið 1739, og lagði eyuna Emburhöfða

bjørgum í Hørdudal, þá hann 1675 fékk Arn-fríðar, dóttur Eggerts Bjørnssonar Ríka, en flutti sig eptir dauða Eggerts, á erfða-jörð konu sinnar, Skarð á Skarðsströnd, árið 1682. Þau Þorsteinn áttu 4 dætur, sem vóru: a.) Þrúður, sem giptist 1704 Brynjólfi Þórðarsyni frá Hlíð-arenda; hún deyði barnlaus í Stóru-bólu 1707. b.) Elín, sem giptist 1704 Bjarna Péturssyni, sem áður er sagt; hún deyði 1746. c.) Ragn-heiður, giptist Ormi Sýslumanni Daðasyni, hún lifði 4um árum lengur enn Ormur Sýslumaður; andaðist hún 1748. Orms og hennar börn vóru: 1.) Eggert, Prestur í Selárdal (fyrrtalinn), deyði 1788; fékk Þorbjargar, sem fyrr segir; þeirra born áður talin. 2.) Jóhanna, sem lengi bjó í Sagradal, átti laundóttur fyrrtalda. d.) Sigríð-ur, sem lengi bjó á Grøfum hjá Skarði, ógipt, deyði barnlaus 1752. e.) Eggert, deyði á tví-tugs aldri í Skálholti 1700, og lét ekki børn eptir sig. Þorsteinn bóndi Þórðarson á Skarði faðir hans deyði einnig árið 1700; var sagður mikill Höfðingi og góður maður.

til áhýlis síns; rédst þá til búss med honum Þrúdur dóttir Bjarna á Skardi Péturssonar, og farnadist þeim vel; bjuggu þau saman í 4 ár ógipt. Arid 1743, þá er Bogi var tvítugur ad aldri, tók hann Þrúdi sína til ekta, med ljúfum vilja og sampyckí Bjarna födur hennar; bjuggu þau þannig gipt á Kjarlaksstödum enn þá 3 ár, uns Benedikt fadir hans deydi árid 1746. Skipti Bogi þá í tvo jafna parta hans jördum og lausafé, og lét Systur sínar taka þann part, er þær vildu. Á sama ári flutti hann búferlum í Hrappsey, en hafdi þó bú á Kjarlaksstödum. Þeim Boga og Þrúdi vard audid fjegra barna: Torfa [32]), Benedikts [33]), Margrétar [34]),

[32]) Torfi fæddist á Kjarlakstödum 1746, deydi úngbarn.

[33]) Benedikt er borinn á Hrappseyu 1749. Um hann segir sídar.

[34]) Margrét var fædd á Hrappseyu 1751; hún giptist Þjódskáldinu Jóni Presti Þorlákssyni. Þeirra einka dóttir, ad nafni Gudrún, er nú gipt Eiólfi Presti Gíslasyni, Olafssonar Biskups, í Saurbæar Þíngum í Dala Sýslu. Laundóttir Margrétar var Þrúdur, módir Hólmfridar, sem Sigurdur bóndi á Krossi fék til ekta. Margrét deydi 10da Dec. 1808.

Bjarna[35]). Med ánægju og farsæld bjuggu þau saman í hjónabandi í 10 ár, en árið 1753 andaðist Þrúður[36]); þá hafði Bogi þrjá tugi vetra. Með karlmennsku og hugbreysti bar hann af sér þann mikla harm, er hann fékk af missir þessarar sinnar konu, hverrar minningu hann gat ecki sleppt til dánar-dægurs. Um 2 ár þar eptir bjó hann eckjumaður; en árið 1755 tók hann til ekta Jómfrú Kristínu

---

[35]) Bjarni er borinn á Hrappseyu 1753, giptist síðar Jóhønnu, dóttur Vigfúsa Hospítalshaldara Helgasonar á Hallbjarnareyri; þeirra børn: a.) Ingibjørg, sem giptist Eiríki bónda Sigurðarsyni; þeirra børn: Stephán, Guðrún, Sigurður, Jóhanna. b.) Þrúður, giptist Einari Høndlunar-Assistent Guðmundarsyni, barnlaus. c.) Jóhann, Studiosus, að Máfahlíð, qvæntist Cecelíu Salómonsdóttur; þeirra eina dóttir, Jóhanna að nafni, lifir enn. Bjarni Bógason var á yngri árum við lærdóm, vel að sér í morgu, opt orðheppinn og hefir jafnan þókt gildur bóndi. Hans launsonur er Olafur bóndi, giptur Ingveldi, dóttur Grímólfs bónda á Jørva.

[36]) Þrúður, dóttir Bjarna á Skarði, tjáist að hafa verið fríð og høfðingleg kona, í minna lagi meðal qvennmaður að vexti, stórlynd, ørlát, vinføst, hú-kona mikil og qvenskørungur.

Bjarnadóttur, systur Þórunnar (ektaqvinnu Gudmundar Sysslumanns Sigurdarsonar í Snæfellsness Sýslu) og Þorleifs Prófasts í Reykholti; tjáist Kristín verid hafa meiri handydna- og gódsemdar- enn bústands-kona. Um 3 ár bjuggu þau Bogi á Hrappseyu; en bædi af farsýsi og líka áeggjun Kaupmanns Skibstæds og fleiri gódra vina, sigldi Bogi til Kaupmannahafnar árid 1758. En er hann þángad kom, var honum svo mikil vyrdíng gjørd, ad traudt munu dæmi, ad nockurr bóndi á vorum tídum hafi jafnmikla fengid; var honum þar bodid til margra heidurlegra samqvæma, margopt var hann og hjá Skúla Landfógeta, sem þá þókti einhverr hinn helzti Íslendíngur í Kaupmannahøfn. Nam Skúli af Boga ýmsar reglur til ædarvarps betrunar, er hinn sídan notadi sér til ad auka varp á Videyu. Ymsum landsmønnum sínum hjálpadi Bogi bóndi þar um veturinn, med penínga styrk[37]). Á næsta sumri 1759 kom Bogi bóndi út apt-

[37]) Medal hverra hann keypti úr Soldáta stétt Einar Hattamakara Hanneson' fyrir 40 rdli, lét hann fara med sér til Íslands og styrkti hann til ad framhalda hér handverki sínu.

ur á Styckishólms skipi, með marga hér fá-
séna gripi; en — á meðan Bogi bóndi var
erlendis, hafði það ólán tilfallið Kristínu konu
hans, að vera um of góðvikin; en þar þetta
komst í hámæli og heldur ecki vár vel á milli
gengið, skildi Bogi sig við hana sama ár; eng-
in áttu þau børn saman. Um þessar mundir
var hálf Hrappsey bryggbúð af Boga bónda,
en hálfa ysirlét hann góðviljuglega (hana hafði
faðir hans áður keypt). Bogi keypti þá, árið
1761, jörðina Staðarfell, mest fyrir aðrar
jarðir, af erfíngjum Hefðíngskonunnar Katrín-
ar Bjørnsdóttur, og færði þángað bú sitt;
en Hrappsey hlotnaðist þá Mad. Sigríði [38])
dóttur Jóns Prófasts í Stafholti Jónssonar,

[38]) Jón Prófastur í Stafholti faðir hennar deyði 1740; mun Sigríður þá hafa verið barn að aldri; fór hún þar eptir, ásamt bróður sínum Jóni (sem 1768 fékk Veitíngarbréf fyrir Rángárvalla Sýslu, eptir Þorstein Sýslumann og ektaði dótt-ur hans Sigríði, en deyði 1788) að Leirá til Magnúsar Amtmanns, Móður-bróður síns, hvar þau Systkyn uppólust, og þaðan giptist Sigríður hauslið 1762 Jóni Presti Asmundarsyni til Breiðabólstaðar á Skógarströnd, sem deyði um sumarmál 1763. Það vor flutti Sigríður

hver ed þá var karlaus ekkja Jóns Prests Asmundarsonar til Breidabólstadar á Skógarströnd, og flutti hún sig þángad búferlum 1763. Bogi bóndi gjørdist mesti búrausnarmadur á Stadarfelli, og þared hann var Félags bródir í þeim þá nýu Reykjavíkur Innréttíngum, tillagdi hann sér spanskt saudfé, sem þó seinna í fjárpestinni var nidurskorid. Nautpeníngur og geitfé vóru þar eptir hans landbúskapar búslofn[39]). Vid Akureyrkju-manni tók hann á útbú sitt Kjarlaksstadi, hvar í túni var hladinn akurgardur, sem enn þá sjer merki til. Hann tók einnig vid Reipslagara, sem hann setti nidur á Arnarstapa, og tillagdi honum nockur skip-pund af hampi; héldt svá fram handverki sínu med sæmilegri heppni um nockur ár. Danskann vefstad, rocka, vefara og þar til heyrandi tillagdi hann sér, og héldt vefnadi og spuna áfram á medan ullu var ad fá. Til fljótari adflutnínga lét Bogi bóndi,

sig ad Krappseyu og bjó þar vid óhægindi í hálft þridja ár, uns hún giptist aptur haustid 1765.

[39]) Þegar hann heyrdi, ad Fjár-pestin tók ad dreifa sér út, fór hann ad láta ala géldneyti, hver ed urdu 20 í senn hjá honum.

á endverdum búskapar-árum sínum, smída stórt farma-skip, eptir sinni fyrisøgn; var þad seinna vid hann kénnt, og þókti hid stærsta og þægasta skip á Breidafirdi í þá daga.

Þannig bjó Bogi bóndi nockur ár med rausn á Stadarfelli; en svo bar vid, ad hann á stundum í sjóferdum sínum var nætur-géstur hjá Mad. Sigrídi á Hrappseyu — því eya sú liggur mjeg á leid sjófarenda. — Hafdi þeim Boga og Sigrídi þá ordid hjaldrjúgt einhverju sinni. Avextur þess vard, ad Bogi tók Sigrídi til ekta árid 1765, þá hann hafdi tvo vetur ens sínta tugar. Stód brúdkaup þeirra ad Stadarfelli med mikilli rausn, hvar flestir høfdingjar nærlendis vóru samankomnir. Þar var mikid munngát ad dregid, druckid fast og tilfaung ecki spørud; brúdkaups vísur og annar gledskapur framinn. Brádt tókust gódar ástir med þeim hjónum; vard þeim audid 8ta barna, hvar af Bogi, Ingveldur og Haldóra deydu úng, en **Ragnheidur** elldri[40]),

D

[40]) Ragnheidur elldri, fædd 1765, giptist hálærda valmenninu Gísla Presti Einarssyni ad Selárdal. Þau eiga nú saman 10 born á lífi, nefnilega: 1.) Einar, Capellán Fødur síns, giptur

Ragnhildi Jónsdóttur frá Sudureyri; eiga 4 børn saman. 2.) Árni, bóndi, giptur Gudrúnu Jónsdóttur frá Stapadal, eiga tvo sonu. 3.) Sigrídur, enn ógipt. 4.) Kristín, gipt settum Sýslumanni í Bardastrandar Sýslu, Gudbrandi Jónssyni frá Móeydarhvoli; þau eiga 4 dætur. 5.) Jón. 6.) Þórdur. 7.) Sigurdur, í Skóla. 8.) Kristín yngri. 9.) Ragnheidur. 10.) Bjørn, øll ógipt.

[41]) Kristín, borin 24da Martz. 1767, giptist fyrr gódmenninu Þórdi Olafssyni, Capelláni Fødur síns í Skards Þíngum; þeirra dóttir Gudrún, ektaqvinna þess setta Sýslumanns í Isafjardar Sýslu, Ebenezers Þorsteinssonar; eiga 2 dætur, Aunnu og Ingibjørgu. Sídar giptist Kristín Sýslumanninum í Dala Sýslu, Skúla Magnússyni; þeirra børn: Ragnhildur, Kristján vid Lærdóm, og Kristín, øll ógipt.

[42]) Gudrún, fædd þann 7da Janúar. 1770, giptist Eggerti Prófasti Gudmundarsyni í Reykholti; þeirra børn á lífi: 1.) Gudrún, gipt Stýrimanni Magnúsi Waager. 2.) Haldóra, gipt Gudmundi Capelláni Bjarnasyni til Garda og Bessastada. 3.) Benedikt, vid Skóla-lærdóm. 4.) Ragnheidur, ógipt.

ur[43]), Ragnheidur yngri[44]), komust til aldurs. Bogi bóndi hafdi útbú á Kjarlakstødum og Hrappseyu; en þegar allt saudfé var af fjárpestinni þar vestra eydilagt, færdi hann adal-bú sitt og adsetur, árid 1769, til Hrappseyar, en bygdi Stadarfélls landjørd þá um 2 ár, en gaf þá jørd Syni sínum Benedikt; árid 1772, þá Theologiæ Studioso, giptum fyrir einu ári Jómfrú Hildi, dóttur Magnúsar Prests til Høskuldsstada á Skagastrønd, Péturssonar, og Asgérdar Pálsdóttur, Systur Bjarna Landlæknis.

Þegar Studiosus O. *Olavius* (sídar Kammer-Sekrete.i) hafdi, árid 1772, ødlast kon-



43) Ingveldur, fædd 1771, giptist fyrst Gudmundi Presti Eiríkssyni til Stadar í Hrútafirdi; þeirra dætur: 1.) Helga, gipt Páli Presti Gudmundarsyni til Borgar Þinga á Mýrum; þeirra dætur: Gudrún og Ingveldur. 2.) Hildur. 3.) Sigrídur, bádar ógiptar. Sídan giptist Ingveldur Stephání Presti Benediktssyni til Hjardarholts í Dølum; þeirra dætur: Ragnheidur og Ingveldur, bádar úngar.

44) Ragnheidur yngri fædd 1772, giptist rádvanda valmenni Birni bónda Gottskálkssyni á Hrappseyu; ega ecki børn á lífi.

únglegt leyfi til ad flytja nýtt Prentverk híngad á land, leitadi hann fast eptir vid Boga bónda, ad lána sér álitlega summu penínga til Prentverksins innkaups; hafdi hann komist ad því, ad Bogi ætti talsverda penínga innistandandi hjá Islands Høndlunar Félagi í Kaupmannahøfn, brast heldur ecki søgur loford um skadlausa borgun lánsins med rentu. *Olavius* féck penínga lánid, keypti Prentverkid og kom inn med þad á Styckishólms skipi árid 1773 ásamt Bókþryckjara og Stýlsetjara; kom Boga bónda þetta mjøg óvart, þar ádur hafdi rádgërdt verid, ad setja Verkid nidur á einhverjum stad á Vestfjørdum. Nú vantadi pláts og hús handa Verkinu, var því leitad hjálpar hjá Boga bónda um hverttveggja, þar hann væri nú ad álíta sem Medeigara Prentverksins fyrir hans til þess innkaups lánuda penínga. Boga bónda þókti ísjárverdt ad fyo nytsamt verk ydi ad engu; lét á sama sumri byggja mikid og vandad hús í Hrappseyu og setja Verkid þar nidur. Arid eptir, eda 1774, sigldi *Olavius* og yfirgaf Prentverkid med øllu, en yfirtaladi Boga til ad kaupa sinn part í því. Fyrst framan af edur til 1784 var þetta Prentverk í sæmilegum gángi, en seinna edur frá 1784 til 1794, þegar peníngs-fellir og hardindi gjørdu fólk ør-

ega og svo kjarklaust, ad hverki gat nè vildi bækur kaupa, var þess drift ecki teljandi, enda var þá litt mögulegt hér vestra ad gjøra út bókalestir, vegna hesta fædar. Auk þessa bannadi Prentverksins Frelseita-bréf frá 4da Júnii 1772, prentun gudfrædi-bóka, sem almenníngur þá einkum girntist. Lærdann mann til ad skrifa bækur, og standa fyrir þeirra útgáfu og réttritum, var ecki audveldt ad fá; ecki heldur góð og áreidanleg Handrit af fornsögum til ad prenta. Listi ysir lofada kaupendur erlendis fargadist af óvildar-mönnum Boga bónda. Overdskuldad álas og mótkast fèck hann frá ýmsum, sem litu til hans skecku auga, og meintu hann hafa meiri ágóda af verkinu enn hann í raun réttri var. Hinn lærdi Sýslumadur M. Ketilsson hafdi ad sönnu tilsjón med tjedu Prentverki framan af, en þessi hafdi þá einnig Embættis-verkum sínum ad gégna, hver hann áleit sér skyldari en náqvæm afskipti af Prentverkinu, sem var í fjarlægd vid hann[45]). Allt

[45]) Magnús Sýslumadur Ketilsson seldi Boga bónda fyrir 100 rdli Handrit af I. og II. Parti konúngl. Tilskipana og opinna bréfa fyrir Ísland; sá III. partur þeirra var og af Sýslumanninum bodinn Boga til kaups, sem hverr hinna, fyrir

til 1780 héldt Bogi bóndi vid Prentverkid 2 Sveina og dreng, samt Stúdenta til lesturs Prófarka[46]), en til 1784 vóru einúngis 2 sveinar og 1 úr því, allir med álitlegum launum;

100 rdli; Bogi vildi betala med prentudum bókum, sem hinn ecki vildi þyggia, sendi því þenna III. Part til Kaupmannahafnar, sem þar kom út prentadur á Bóksala Gyldendals forlag 1787, en ecki hefir eg heyrt þess gétid, ad Rithöfundurinn hafi þar fyrir sengid borgun.

[46]) Hjá Boga bónda þiónudu, sem Bókþryckjarar: 1.) Eirikur Hoff, frá 1773, en skildi vid heidurslítid 1777, sigldi og dó vesæll i Kaupmannahøfn nálægt 1790. 2.) Gudmundur Olafsson frá 1777 til 1780. 3.) G. J. Schagfjord, sem nú þiónar Prentverkinu í Videyu undir stjórn ens hálærda Conferenceráds, Justitiarii og Dr. Juris M. Stephensens, frá 1782 til 1784; en svenski Stýlsetjarinn Magnús Móberg, prentadi þad er útkom 1781, og frá 1784 til 1794 lítid annad enn Løgþingis bækurnar; hann fylgdi Prentverkinu 1795 til Leirárgarda; en þad sídasta ár, sem Bogi lifdi, fól hann Benedikt syni sínum á hendur ad annast Móberg, ef medþyrfti. Hann biladist bædi á sjón og til heilsu, yfirgaf Prentverkid 1806, fór ad Stadarfelli til Benedikts, og deydi þar seint á árinu 1807, á 59da aldursári.

auk þessa vard honum mjeg svo kostnadarsöm prentun stórra bóka, er sídar ecki tókst ad selja til ad svara kostnadinum[47]). Hvernig var þá

Til Prófarka-lesturs tók Bogi bóndi, fyrir utan Dótturmann sinn, Jón Prest Þorláksson, Stúdentana: Jón Gíslason, sem sigldi til Háskólans í Kaupmannahöfn og deydi þar, og Markús Sigurdarson, sídarst Prest til Mosfells og Gufuness. Var sá fyrri vel á veg kominn ad snúa Laxdæla Sögu á Látínu, undir leidréttíngu ens lærda Prófasts Gunnars Pálssonar: en — það Handrit mun nú med öllu tapad.

[47]) Frá Hrappseyar Prentverki útkomu eptirfylgjandi bækur, smá-rit og blød:

1.) Kristjáns Konúngs V. Norsku-Løg á Íslendsku í 4to 1779.
2.) Utleggíng af NL. 5. B. 2. Kap. um Erfdir (af Magnúsi Sýslumanni Kétilssyni), í 8vo 1773.
3—4.) Kongelige Forordninger og aabne Breve, udgivne for Island, 1te og 2den Deel, í 4to 1776 — 1778.
5.) Inntak nockurra Kóngsbréfa fyrir Almúga, í 8vo 1785.
6.) Forordning um þann íslendska Tarta og Kauphøndlun, í 4to 1777 og 1778.
7—28.) Løgþíngisbækur fyrir 22 ár, edur frá 1773 til 1794 inclusive, í 4to.

møgulegt annad, enn ad hann, á flestar sídur adþreyngdur og kominn ad elli-árum, yrdi loks

---

29.) Búa-løg, í 8vo 1775.
30.) Itala Búsjár í haga, og um Hrossa-slátur, med Vidbætir um Hesta-bit og Sláttu-tíma (af Magnúsi Sýslumanni Kétilssyni), í 8vo 1776 og 1777.
31.) Saudfjár-hirding (af sama), í 8vo 1778.
32.) Um innilegu Búsmala á Sumrum (af sama), í 8vo 1790.
33.) Tilraun um Sádtegundir og Pløntur (af sama), í 8vo 1779.
34.) Búnadarbálkur af Vice Løgmanni Eggert Olafssyni), í 8vo 1783.
35.) Atli (af Birni Prófasti Halldórssyni), í 8vo 1780 og 1783.
36.) Hússtablan (af Jóni Presti Magnússyni í Laufási) í 8vo 1775.
37.) Heimsspekinga Skóli (af Gudmundi Bergþórssyni) í 8vo 1784.
38.) Støfunar barn (af Gunnari Prófasti Pálssyni), í 8vo 1782.
39.) Tullins Qvædi á Donsku, med íslendskri útleggíngu (af Jóni Presti Þorlákssyni) í 8vo 1774.
40.) Ljódmæli (af sama) med Vidbætir af Qvædum, í 8vo 1783.
41.) Luckn-ósk til Biskups Dr. F. Jónssonar í

Þrenttur af útdragssömum kostnadi? Hvad engir þeir munu lá, sem reynt hafa þann ördug-

látínskum versum (af Gunnari Prófasti Pálssyni), í 4to 1776.

42.) Hugdylla edur Gledi-qvædi (af sama) til Rector Mag. H. Einarssonar (Patent) 1783.

43—44.) Annálar Bjørns á Skardsá, 1ta og 2ad Bindi, á Íslendsku og Látínu, og á Íslendsku einúngis, í 4to 1774.

45—46.) Islandske Maaneds Tidender, fra Oktobr. 1773 til Oktobr. 1775, 2de Bind í 8vo.

47.) Gottfried Schultzens nú yfirskodud Heimskringla (íslendskud af Gunnlaugi Presti Snorrasyni), í 4to 1779.

48.) Heimsins Tímatal (af Halldóri Sýslum. Jakobssyni), í 4to 1781.

49.) Egils Skallagrímssonar og Armanns Søgur, í 4to 1781.

50.) Æfi Eggerts Løgmanns Olafssonar (af Birni Prófasti Halldórssyni), í 8vo 1784.

51.) Rímur af Ulfari Sterka, í 8vo 1775.

52.) — af Hrólfi Konúngi Kraka, í 8vo 1777.

53.) — af Agnari Hróarssyni, í 8vo 1777.

54.) — af Ingvari Vídførla, í 8vo 1777.

55.) — af Hervøru Angantýrsdóttur, í 8vo 1777.

ýkifa, er í þessu mætir; og ef það einasta Prentverk, sem nú er hér á landi, er hefir nærstum

---

56.) Rímur af Sigurdi Snarfara, í 8vo 1779.
57.) Ríma af Þorsteini Sudurfara, í 8vo 1782.
58.) Æfintýrid Jóhönnu Raunir, í 16o 1784.
59.) Tíma-ríma og Skipa-fregn, í 8vo 1783.
60.) Erfiljód eptir Jóhönnu Ormsdóttur, í 8vo 1784
61.) — — Þóru Þormódsdóttur, í 8vo. 1784.
62.) — — Karitas Bjarnadóttur, í 8vo 1784.
63.) Brúdkaups-vísur til Gullsmids Fjældsteds, 1785.
64.) — — — Þórdar Prestis Olafssonar, 1788.
65.) — — — Bjørns Gottskálkssonar, 1793.
66.) Tanker om det Rappsøiske Bogtrykkerie, í 8vo 1786.

Auk þessa eru, med leyfi Hra. Stiptamtmannanna L. A. Thodals og O. Stephánssonar, í Hrappseyu prentadar eptirfylgiandi andlegar bækur:

67.) Sálmar af Dómara-bókinni (af Jóni Sigurdarsyni), í 8vo 1783.
68.) Utleggíng yfir 7 Ord Maríu (af Gudmundi Presti Högnasyni), í 8vo 1783.

ótakmörkuð Prent frîheit, og gêtur árlega útselt töluverdt af bókum, hverra brúkun legskipud er, sem hefir hinn lærdasta og mesta Landshöfdíngja og dugnadarmann fyrir umráda- og tilsjónarmann, ef þad — segi eg — á ördugt med ad standa kostnadinn, hvad var þá ad undra, þó Boga bónda yrdi þad þúngbært? Hann hætti og loks ad láta prenta, og yfirlét Prentverkid Dótturmanni sínum, þeim góðfræga Birni bónda Gottskálksyni, sem árid 1795, seldi þad aptur Islands Landsuppfrædingar Félags Hefundum.

Þegar Bogi bóndi var á 6tugs aldri, tók hann augnaverkur; medöl, eptir Lækna fyriskriftum, vóru þar vid brúkud, en dugdu lítid, því

---

69.) Mißirasskipta Predikanir (af sama), í 8vo 1783.

70.) Sjö Sendibréf Jesú Krists til Safnadanna í Asíu (af sama), í 8vo 1783.

71.) Mißiraskipta-Offur (af Jóni Presti Gudmundssyni), í 8vo 1794.

Kóngsbréfa-partarnir, sem Lærdir einir keyptu, urdu til mesta skada, og mikid af prentudum bókum var ordid mjög skémmt, vid andlát Boga.

Auk árlegs innkaups Prentverksins naudsynja, keypti Bogi bóndi 1779 og 1784 tvö ný og fullkomin letur, Cicero og Mittel.

á 7tugs aldri náði hann algjörlega sjón; bygdi hann þá af Grappseyu, en hafdi sjálfur litla grasnyt og mikinn hluta dúns. Med ellinni þverrudu kraptar hans, þar til hann loks vard algjörlega rúmfastur sídarsta mánadar-tíma lífdaga sinna, þó med mjeg hægum verkjum; bjóst hann þá vid dauda sínum med ánægju og þolinmædi; loks bad hann þá hjá honum vóru, ad bera ástar qvedju sína öllum vinum og frændum sínum, og med hægu andláti leid burt sem ljós, hann 10da Okt. 1803, þá er hann skorti nærfellt 3 mánudi á áttrædis aldur.

Bogi bóndi var, medan hann hafdi fjörsitt, forstands og frómqvæmdar madur bædi innan húss og utan; þurfti hann og mjög á því ad halda, þar tvær sídari konur hans vóru þar til midur lagadar, en hafdi optarst framan af æsi sinni, ad sjá fyri 2ur og stundum 3ur búum í senn. Honum var mjög lagin ædavarps-ræktan; leitadi sjálfur medan vegskygn var og var vandlátur mjög um, ad stropud og úngud egg væru ecki tekin; enda blómgadist Grappsey mest og best ad ædavarpi á medan hann bjó þar, en á hans efstu árum, þegar hann vard alls med annara augum ad sjá, var því til helfínga aptur farid. Fyrir byggíngar var hann gefinn: þegar hann fyrst setti bú á Grappsey,

lét hann þar allann bæinn uppbyggja; sumt þar af stendur enn; og þegar sumt af hans byggíngum var ryfið, sem stadid hefdu í 60 ár, þókti þær svo vel hafa verid vandadar, ad vart mundu nú finnast þvílíkar. Þá stofu, sem hann bygdi á Stadarfelli, lét hann sídarfæra í Hrappsey til Prentstofu, var hún óskéckt og lítid súin ryfin eptir 1800, og þókti þá enn traust.

Bogi var á æsku-árum skrautmenni, slíngur mjøg vid skáktabl og heppinn í spilum; urdu honum ad því góд not, þá er hann dvaldi í Kaupmannahøfn. Hann var medalmadur á vøxt, vel þrekinn og vel vaxinn, rjódur og þyckleitur; jarpur-á hár med hátt og breidt enni, blá augu, nockud vara þyckur, en fór vel; réttnefjadur, breidur um høku, og allt var andlitsfall hans vel skapfellegt; útlimir hans vóru í minna lagi, þyckir og sterklegir; hann var yfir høfud á æsku-árum haldinn med fríduslu mønnum [48]). Hann var þad mikilmenni ad abli,

[48]) Þá er teknir vóru eidar á Alþíngi 1766, Kongúngi Kristjáni VII til handa, þókti alþýdu Bogi vera ad ásýnd og atgjørfi fyrir øllum ødrum Bændum; hvers vegna qvedid var um hann:

Gódur, frídur, gladlyndur, gaman-rædur femur;
Enginn Líkur Öldúngur, á Alþíng núna kémur.

ad traudt vissu menn krapta hans, en nockur hans hreystiverk eru enn þá lifendum í fersku minni. Hann var gódmenni af náttúru, og sýndi þad jafnan í lifnadi sínum. Hversdags-lega var hann hægur og stilltur; reiddist sjaldan utan ols; tók sensum af hverjum helzt sem var, þegar hann fann rekfemd þar fyrir; hann var saungjarn og fráſneiddur þrætumálum, en tæki hann þátt í þeim, var hann opt þrár móti illu, seigur og lángsær og héldt optarst sínum hlut ad lokum. Bogi var spakvitur, og rættist optarst þad honum sagdi hugur um. Fyrir alla þá, er í grend vid hann bjuggu, var til hans ad leita úrlausnar flestra missklída medal bænda, og ecki þókti rád rádid af nábúum hans, nema borid væri undir hans álit, því hann var bædi rádgódur og rádhollur; vard þad flest til heilla, sem hann rédi mönnum. Hann var vinfastur, sáttgjarn, óáleitinn vid adra, heimilis-prúdur, or og stórgjøfull endverda æfi sína[49]), en hugull

(Þetta sagdi Hákon Prestur á Alptamýri, þá yfir 80 ára gamall, Boga yngra Benediktssyni.)

[49]) Ad hans forlagi er Dagverdarness Kirkja sett, og gaf hann og Húsfreya hans Prúdur þar til jørdina Nýp, 16 hndr. med 15 aura landskuld

og notalegur á efra aldri. Bogi bóndi var ó-skadasár madur[50]; gjørdi margar tilraunir til síns Fødurlands heilla[51]); fyrr og sídar var

og 3ur kúgyldum, med þeim skilmálum: „ad ef Prestur í Skards Þíngum forsómadi ad em, bætta tilhlýdilega, eda kirkjan væri nidurfelld, hvirfi jørdin aptur til þeirra løgborinna ætt-manna.“ (Datum þess Bréfs er af 28da Nóv. 1752, en Stadfesting Konúngs þar uppá er af 6ta Septembr. 1755; þó var ecki kirkjan uppbygd fyrrenn 1758). Elin Systir Boga gaf og til sømu kirkju Dagverdarness hjáleigu Sel, 5 hndr. ad dýrleika med einu kúgyldi. Datum þess bréfs er af 30ta Nóv. 1752. Boge gaf og til ýmsra annara fleiri jardir, svo sem: Púfu 16 hndr. med 3ur kúgyldum, hálfa Hofstadi 8 hundrud med 1½ kúgyldi, etc. fyrir utan margt og mikid af lausafé.

[50]) Pá vinnumenn hans af Hirdulcysi slepptu undan nýum 6ærings báti. sagdi hann: „ verst er ef eg sæ ecki spítur úr honum í meisrimar.“

[51]) Hans ádurtøldu vidburdir med gardyrkju, skinna-verkun, hattagiørdir, færaspuna, dauskann vefstól, klæda-vefara, rockaspuna, spanskt saudfé og hlutteku, ing í Reykjavíkur Innréttingum, samt Prent-verk, á sinn eginn kostnad, sýna þad best. Eins og Afi hans, Brokeyar Jón, vard mørgum til gagns

hann gódgjørdasamur fátækum og skyldmennum sínum [52]); mesti greida- og géstrisnis-madur heim ad sækja [53]); gladur og skémtinn vid vini sína; fródur í rædum og mikill ættvísis-madur, og hafdi ætíd nóg ánægjusamt rædu efni. Hann var og ad hvívetna hagur, og sagdi fyri flestu smídi; hagmæltur var hann, þó lítid bæri á því. Hjá øllum, sem þecktu hann, er sannleika og réttsýni gættu, var hann í miklum metum, og þókti gefuglyndur í flestu. Ondverda æfi hans á medan hann lifdi med Þrúdi sinni, gengu honum flestir hlutir ad sólu, til þess hann var hálf-fertugur, en frá þeim tíma til dauda hans eldti á ýmsu.

med því fyrstur hér (þad eg veit), ad kénna fólki ad hreinsa ædardún.

[52]) Marga únglínga og skyldmenni sín ól hann upp og kom til þeirrar menníngar, sem audid vard; einninn tók hann karla og kérlíngar, sem eitthvad vóru í ætt vid hann, og undirhéldt medan lifdu; mørgum í þrauta-standi hjálpadi hann bædi med gód rád og fjármuni.

[53]) Þegar Magnús Sýslumadur Ketilsson kom til Dala Sýslu 1754, og Benedikt Prestur Pálsson til Capelláns Einars Prests í Hvammi 1764, en Hallgrímur Bachmann til síns Embættis 1766, tók Bogi Bóndi þá án borgunar um 2 misséri; mørgum ónafnkunnugri veitti hann sømu velgjørdir.

Öllu sínu jarðagózi skipti Bogi bóndi á lífanda lífi medal barna sinna, hafdi og fyrir sitt dánar-dægur afhendt þeim drjúgann part af lausafé og jördum. Af svo kölludum ólærdum mönnum, var Bogi bóndi vel ad sér; skrifadi snilllega og reiknadi mæta vel. Af lærdóms-sökum vid Prentverkid vildi hann sér lítid skipta, þar hann vissi hvílíkri hótfindni og hleypidóm-um þad var undirorpid, einkum af þeim, sem þar á hefdu einna minnst vit.

Hvern má nú reikna miklinn mann af bóndastandi, ef ecki Boga? Hverr bóndi hefir á 18du Öld rádist í jafnvigtug fyrirtæki? Vitni allir þeir, sem til hans þecktu eda hafa þeckt: hvert þeir viti nockurn Bóndasona á Íslandi, og sjálfann Bónda valda-lausann, hans jafnoka honum samtída? Þjódskáldid Jón Prestur Þorláksson qvedur í hans Minningu þannig:



| | |
|---|---|
| 1. | Hold ad eins þessa dó; |
| Upprísu vissri von, | Met, dygd og mannord hans, |
| Verndadur hels um nótt, | Muna lengst uppi þó. |
| Bogi Benediktsson, | 2. |
| Blundar hér undir rótt. | Afsprengi margt og mætt, |
| Heidursverdt höfdingsmanns | Og mikil verka-not, |

Veita sæmd Íslands ætt,
Og adstod fram á þrot.
Mæríngur Fedra fróns,
Frægstur í sinni röd
Mörgum var mýkir tjóns,
Mildur þurfenda qvöd.

3.

Vandadi vel sitt rád;
Vañ med jafnlyndi þraut;
Mat hærra dygd og dád,
En dramb og maktar-skraut;
Gédprúdur, gégn í lund,
Gódmenni, vinum trúr,
Hann lifdi hverja stund,
Hels fram ad lánga dúr.

4.

Mold hans til módur hneig,
Í mjúkrar hvíldar skaut;
Himins deild hærra steig,
Hvar síns uppruna naut.
Gud liet þeim ár og önn
Uthlutud saman tveim,
Og dýrdar sam-not sönn,
Sídar í ödrum heim.

---

Bogi bóndi deydi — sem ádur er sagt — þann 10da Októbr. 1803, en var grafinn fyrir framan kórdyr í Stadarfells kirkju, þann 24da s. m., í vidurvist flestra hans nálægra Náúnga og margra annara gódra manna. Sídar var frá Kaupmannahöfn útvegud og í Stadarfells kirkju uppfest stór, svört Tabla, med ekta-gylltum römmum og þessu Letri:

Hér. er. lagt. Lík. andvana.
Gódfræga. Göfugmennid.
BOGI. ELDRI. BENEDIKTSSON.

Hann. er. borinn. í. heim. þenna.
Sjötján. hundrud. sex. og. átján.
Nær. áttrædur. nár. vidskildi.
Á. Aldar. nítjándu. ári þridja.
Tólf. var. Barna. tryggur. Fadir.
Fjögur. nú. fagna. á. fegins landi.
En. átta. hér. harma. ágætann. Födur.

---

*Sá var frægstur finnar slettar*
*Um daga lífs, dygd rækjandi.*
*Mærings þessa Minning dýra*
*Ofar foldu æ mun lifa!*

---

Sínum besta setti Afa
Bogi *ýngri* Benediktsson.

---

# IV.
# Frá Benedikt Bogasyni.

Benedikt Bogason er borinn þann 20ta Apr. sem þá bar uppá Laugardaginn 1ta

í Sumri, árið 1749, í Hrappseÿu á Breiðafirði. Foreldrar hans vóru: Merkis-bóndinn Bogi Benedíktsson og Þrúður Bjarnadóttir Sýslumanns Péturssonar á Skarði. Þá er Benedikt var 4ra vetra, misti hann móður sína, en ólst þar eptir upp hjá Föður sínum uns hann var 12 vetra; en árið 1761 var honum komið að Hjarðarholti til Gunnars Prófasts Pálssonar, hvar hann um 4ra vetra tíma lærði sinn Barnalærdóm, lestur og skrift, samt naut fyrstu undirvísunar í látínsku og grísku túngumáli. Hinn 16da vetur aldurs síns var hann undir uppfræðíngu Benedikts Prests Pálssonar, er þá var Capellán Einars Prests Þórðarsonar í Hvammi, en heimamaður Boga bónda á Staðarfelli. Um haustið 1765, þá er Benedikt var á sínu 17da aldurs ári, fór hann í Skálholts Skóla, og útskrifaðist þaðan vórið 1770, með Mag. Bjarna Rectors besta Vitnisburði í lærdóms-mentum, skarpleik og siðferði. Næstu misiri var hann Ráðsnaður fyrir útbúi föður síns á Kjarlaksstöðum, en um vorið 1771 tók hann til ekta Ráðskonuna á téðu búi, Jómfrú Hildi[54]), dóttur

54) Hildur Magnúsdóttir er borinn í þennann heim á Miklagarði í Eyafirði, Laugardaginn þ.

Magnúsar Prests Péturssonar, sídarst ad Høskuldsstødum í Húnavatns Sýslu, og As-

---

17da Októbr. 1744, en skírd af Þorsteini Presti Jónssyni á Saurbæ, sem tók hana til fósturs strax frá skírn; naut hún hans adhjúkrunar í 4 ár, uns hann deydi 1748, og þadanaf var hún á fóstri nærsellt í 12 ár hjá velnefnds Prests Ekkju, Halldóru Gudmundardóttur (sem eptir fráfall Þorsteins Prests flutti ad Melgérdi), ad hverri látinni hún fluttist til Foreldra sinna ad Høskulds-stødum árid 1760, og dvaldi þar einn sumartíma, var hún þá, 16 vetra gømul, lied fyrir Þjónustu-stúlku vestur ad Hjardarholti í Dølum, til Gunnars Prófasts Módur-bródur síns; og dvaldi hún þar í hálft fimmta ár. Á þeim árum var Benedikt vid Lærdóm í Hjardarholti, og féllst hvort þeirra ødru vel í géd; fór hún og ad tilmælum hans árid 1765 ad Stadarfelli, fyrir Þjónustu-stúlku hjá Boga bónda og Mad. Sigrídi Jóns-dóttur; var hún þá strax Rádskona á útbúum á sumrum — því hún vard brádt fyrir dugnad og forstand nafntogud — eda heima á Stadarfelli vid innanbæar umsjón, sauma og þesshattar, uns hún giptist vorid 1771 á 27da aldurs ári, og ásamt manni sínum setti bú á Stadarfelli í Fardøgum 1772. Láng-þjád af Ikt, svo ad ecki gat um búst. p annast, flutti hún, árid 180-, til dóttur sinnar, Mad. Schéving, ad Haga á Bardaströnd, þá

gerdar Pálsdóttur[55]), hver Jómfrú í þá daga var hér vestra ordlögd fyri qvennkosti, fríðleika og forstand; vóru þau hjóa sömu misseri fyrir tjedu búi. Næsta vor 1772 fluttu þau sig ad Stadarfelli — hverja jørd Bogi bóndi gaf þá Syni sínum — Bjó Benedikt þar alla æfi í 47 ár. Á øndverdum búskapsar árum hans, um og eptir fjárpestina, var

hún hafdi 3 um 6tugt; dvaldi hún þar í 4 ár; þadan fluttist hún aptur, árid 1811, til sonar síns ad Styckishólmi, 67 ára gømul, hvar hún nú, á 79da aldurs ári, lifir vid vonum betri heilsu-kjør.

[55]) Magnús Prestur Pétursson fæddur Mánudaginn þann 2ann Júnii 1710 ad Stórubreckn í Fljótum; vígdist fyrst til Upsa á Upsaströnd, eptir Pál Prest Bjarnason 1731; þareptir var honum veittur Mikligardur í Eyafirdi árid 1743; en sídarst Høfkuldsstadir á Skagaströnd 1748, eptir Stephán Prest Olafsson. Magnús Prestur giptist árid 1733 Asgérdi dóttur Páls Prests Formanns síns á Upsum, og abladi þar med henni 7 barna, en 12 alls. Magnús Prestur deydi á Høskuldsstødum 1784. Hann var Prestur um 53 ár; mikill búhølu og framqvæmdar-madur og allvel lærdur. Hann hefir útlagt á íslendska túngu þá stóru Lúthers Søgu og fleira.

sandkindalaust og margs fátt í fyrstu, en með húss-umsýslu beggja, jók Guð svo efni þeirra hjóna, að innan skamms hefðu þau hvervetna nægtir til hvers, er hafa þurfti; vóru þau, á meðan saman bjuggu, talin einhver hin búsælustu í Dala Sýslu, og veittu tíðum ríkuglega hjálp þurftugum í sinni og ødrum sveitum. Þau auðguðust framyfir líkindi, jafnvel þótt þau yrðu fyrir miklum fjárskøðum, þar svar lagði niður bæ þeirra af snjóþýngslum, samt ønnur nærri standandi hús, hvað allt hann lét jafnóðum ramhyggilega upp aptur byggja; en auk þessa varð skaðinn þó lángmestur, þegar gjørvallur bærinn, þann 4da Febr. 1808, brann til kaldra kola, með øllu því, er inni var, svo engu varð bjargað utan mønnum[56]). Ecki er hægt að segja, hversu margra Ríkisdala virði þar fórst fyrir utan húsin sjálf; því þar var vel ríkt heimili innanstocks af flestu. Ecki lét Benedikt á sig bíta skaða sína, heldur stofn-

[56]) Eldur sá kom úr kakalofns pípu, og læstist eptir þurru tróði milli þaks og súðar um øll bæar hússin, svo allt brann á svipstundu, áður enn freðið þak í stór-fjúki og frosti varð sundur høggvið, en kirkjan og fleiri útihús urðu varin. — Skaðar af eldi mega vera mønnum til viðvørunar.

aði nýa bæar-byggíngu í ødrum stað, eptir sem faung vóru á, þá í bøndunarlersis tíð, og líka innkaup búshluta. Fallna Staðarfells torfkirkju bygði hann að nýu, og lét gjera sterkbygða timburkirkju, jafnvel stærri enn þørf var til; af egin efnum lagði hann tøluverðt til hennar byggíngar. Svo var mikill kostnaður og tillegur hans til þessa og margs annars, að margir ætluðu hann mundi ecki fá staðist, án þess að lóga jørðum, þar hann, embættis-laus og inntekta-lítill, lifði mest af sínu egin búi, en útsallið sýndi annað.

Á øndverðum búskapar-árum sínum fór Benedikt til fiskiveiða með einn bát sinn; var heppinn í því, sem ødru; annars hafði hann ecki tøluverðann sjáfar-útveg, en stundaði mest landbúnað sinn og jarðar-rækt. Á enum efra aldri var hann mjeg reglubundinn, að allt færi með sniðum á heimilinu, og leit sjálfur eptir flestu utanhúss. Þess á milli lagði hann sig eptir bók-vísindum, ellegar fékkst við eitthvert smálegt tré-smíði; en þegar vinir eða kunníngjar vóru géstir hans, gladdi hann sig opt með þeim, og talaði við sérhvern þeirra um þau vísindi, eða búståndsfakir, sem hann héldt hinn sama fróðann í.

Þeim Benedikt og Hildi konu hans vard andid 3gja barna: fyrstur var Bogi[57]),

---

57.) Hann er borinn á Kjarlaksstödum í Dala Sýslu, Þridjudaginn þann 24da Sept. 1771, en skírdur af Olafi Prófasti Einarssyni þann 26ta s. m. Olst hann upp á Stadarfelli hjá Foreldrum sínum til síns 12ta árs. Vorid 1783 var hann af Markúsi Presti Eyólfssyni konfirmeradur. Þad sama vor var Bogi um mánadar-tíma, og aptur frá Jólaföstu til Páska 1784 á Helgafelli, hjá Prófasti, sídar Biskupi, Hra. Sigurdi Stephánssyni, hvar hann naut fyrstu uppfrædingar í látinskri túngu, stafagjörd og reikníngi. Þessu var þá sleppt í nockur ár, uns Bogi var um veturinn 1789 hjá Afa sínum í Hrappsey, hvar hann naut tilsagnar í látinskri túngu hjá Þórdi Presti Olafssyni, og ad uppgötva þad ádur lærda; en árid 1790 var hann settur í Hóla Skóla, undir tilsögn Conrectors Halldórs Hjálmarssonar, Proconrectors Gísla Jónssonar og Rectors Páls Hjálmarssonar, en útskrifadist þadan 1795, og ætladi sam-sumars ad sigla til Kaupmannahafnar Háskóla, sem þó, vegna vissra orsaka, ecki vard; dvaldi hann svo hálft annad ár í Foreldra húsum, uns hann, haustid 1796, fór vestur ad Holti í Önundarfirdi, og giptist dóttur Jóns Prests Sigurdarsonar, Jómfr. Jardþrúdi, sem borin var í heim þenna á Stad í Grunnavík, þann 8da Maji

þar næst **Prúdur**, sem fæddist á Stadarfelli árid 1772, en deyði á 4da ári, 1776;

1776, en fluttist med Foreldrum sínum, 1779, ad Arnarbæli í Ölvesi, og þadan aptur ad Holti í Önundarfirdi 1783. Í Fardøgum 1797, þá Bogi hafdi dvalid þar einn vetrar tíma, afhendti hann, fyrir sinnar vegna, Holts Prestakall, hvert þá var veitt Jóni Prófasti Asgeirssyni, en flutt-ist siálfur med konu sinni ad Arnarbæli í Dala Sýslu, hverja jørd hann haustid fyrir hafdi keypt undir bú sitt. Arid 1803 kom hann í akkord ad verda Høndlunar Faktor fyrir Riddara O. Thorlacius, og flutti í Fardøgum 1804 ad Býldudal. Arid 1807, þegar velnefndur Thorlacius hafdi keypt Høndlunar-stadinn Styckishólm, var Bogi þángad sendur Høndlunar Faktor, dvaldi á Býldudal nærsta vetur, en flutti sig algjørlega búferlum til Styckishólms í Fardøgum 1808. Eptir Thorlacius's fráfall var Bogi, árid 1818, af Yfirvøldunum skipadur formyndari þeirra úngu Thorlacius's sona og Høndlunar stadanna Yfir-Faktor. Boga og hans Húsfreyu børn á lífi eru:

1.) Benedikt, fæddur í Arnarbæli í Dala Sýslu, þann 21ta Jan. 1798; útskrifadist frá Bessastada Skóla 1818 og sigldi sama ár til Kaupmannahafnar, kom aptur til Islands 1819, og sigldi um haustid; giptist þann 21ta Júnii 1820 Jómfr. Johønnu Vinding, og býr nú Húseigari í Kaupmannahøfn.

sídurst var Halldóra[58]), gipt Kaupmanni Gudmundi Schéving.

---

2.) Hildur, fædd í Arnarbæli, þann 4da Júnii 1799; ólst upp hjá Afa sínum og Ommu á Stadarfelli, til þess hún var 12 vetra, en þadan af hjá Foreldrum sínum í Styckishólmi, uns hún giptist Landsyfirréttar Assessóri Bjarna Thóras, rensen 1820.

3.) Solveig, fædd í Arnarbæli 1801, þan 27da Októbr.; ólst upp hjá Foreldrum sínum, til þess hún giptist Apóthekara og Klausturhaldara Oddi Thórarensen frá Eyafirdi 1821.

4.) Jens Jakob, fæddur á Bøldudal þann 3ja Sept. 1806.

5.) Brynjólfur, fæddur á Bøldudal þann 30ta Dec. 1807; þessir bádir vid lærdóm.

6.) Ragnheidur, fædd í Styckishólmi þan 7da Júnii 1814.

7.) Sigrídur, fædd sama stadar þann 22an Aug. 1818.

8.) Jóhanna Sophia, fædd sama stadar þann 7da Febr. 1823.

[58]) Halldóra, er borin á Stadarfelli þann 28da Marts. 1778; hún ólst upp í Foreldra húsum, til þess hún, árid 1801, giptist Gudmundi syni Bjarna Sýslumanns Einarssonar og Ragnheidar dóttur Davids Sýslumanns Schévings í Haga á Bardaströnd. Gudmundur Schéving var

Þá er Benedikt var kominn á 6tugs aldur, tók hann að verða kránkur, og kraptar að fara minkandi; fór það smámsaman í vöxt, til hans 68da alburs árs, lagðist hann þá þætt og lá um hríð mjög þúngt, en komst þó á fætur aptur með veikum burðum, um fleksann missiris tíma; á næsta vetri varð hann aptur mjög veikur, og hélt algjerlega við rúmið frá Jólum missirið út og þjáðist mikið. Í þeim sjúkdómi hans, heimsóktu hann opt frændur hans og vinir; var hann við þá ástúðlegur, uppbyggilegur í ræðum og hafði enn þá yndi af lærdóms-ríku samtali þeirra. Fram í andlát sitt hafði hann fulla skynsemi, og bar sinn lángvinna sjúkdóm með þolinmæði. Þann 15da Maji 1819 gjerði hann Testament til Sonar síns, og gaf ýmsum af heimilisfólki sínu gjafir.

settur Sýslumaður í Barðastrandar Sýslu árið 1801, uns Guðbrandur Jónsson frá Hvoerðarhvoli var þar settur Sýslumaður; en Guðmundur Schéving tók höndlun og Med-interessentskap á Flateyar Höndlunar stað og gjörðist þar Kaupmaður árið 1815. Guðmundar Schévings og Húsfreyu hans Halldóru Benediktsdóttur börn eru: Davíð, Stúdent; Benedikt, við Skóla lærdóm; Þóra, Ólafur, Hildur og Herdís, öll úng.

þángad til hafdi hann, í sinni laungu legu, sagt fyrir flestum heimilis starfa; en þá afhendti hann øll búss umráð Böga Syni sínum, og qvað nú sína einustu laungun, að fá að skiljast hér við og hverfa til síns góða Guðs; qvaddi hann þá alla nærstadda eini sína með kossi og góðum óskum; en 11 dögum sídar, edur þann 26ta Maji 1819, litlu fyrir hádegi, sofnadi hann, með hægu andláti, á burt úr heimi þessum, þá er hann hafdi lifad 70 ár og 1 mánud betur, en í hjónabandi 48 ár. Jardarför hans framfór að Stadarfelli þann 8da Júnii nærst epti, og var þar heidrud af flestum hans ættíngjum og vinum, er þángað gátu sókt, ásamt fjølda Sóknar-manna, sem óbodnir komu og vottudu við moldir hans þacklátsemi sína.

Benedikt var medalmadur á hæð, jarpur á hár og bláeygdur, nockud toginleitur, réttnefjadur og ennid breidt; útlimir hans vóru, eptir ødrum vexti, í minna lagi; hann var nockud lotinn á herdar, nærsýnn, en sá allra manna best nærri sér, og héldt þeirri sjón sinni án gleraugna til dánar-dægurs. Hann var nettur í øllum handa-tiltektum og ølli, sem mjúkleik og fimleik vidkom; besti glímu-madur

á úngu aldri og frækinn madur ad kraptum; ritadi og skrifadi í betra lagi í sinni tíd; vel hag-ur og nettur á tré-smídi; hagmæltur bædi á ís-lendsku og látínsku túngu; saungmadur gódur og prédikari. Hann var madur fljótskarpur, snar-rádur [59]), ríklundadur, gjör-hugull, og vildi sérhverjum yrdi notasælt þad, hann lét af hendi rakna; hann var og mjög umlídunar-samur. Allra manna var hann ordheldnastur, gódgjarn og veitíngasamur heim ad sækja; fród-ur og uppbyggilegur í rædum. Hann var mad-ur óstölltur; hvers-daglega hægur og ljúfur; mesti mannbjargar-madur bædi í sinni og ödr-um sveitum; hvatamadur til alls dugnadar og framqvæmdar í bústands sökum, trúr, hagmælsk-ur og merkur; hann brá sér sist vid voveiflega hluti eda skada sína, og klagadi þar aldrei yfir. Ecki vildi hann bindast Embættum, þó skipadi hann öllu í Sveit sinni, eins og best fór, med gódþeckni Sýslumannanna Magnúsar og Skú-la; margir sóktu rád til hans, og margar mis-klídir sætti hann; vyrdtist engum rádlegt ad

59) J sérhverju voveiflegu tilfelli á sió og landi tók hann þad ráds, er allir sáu á eptir, ad þá var þad besta.

kyppta af honum gjörda sátt. Hann var madur ordheppinn og gagn-yrdtur einkum vid öl; á efra aldri sókti hann gétspeki til Födur sins; gudrækinn var hann og velþenkjandi án hræsni

Frá æsku-árum stundadi hann af alúd lærdóms mentir; hann lagdi sig á ondverdri æfi einkum eptir lærdómi svo nefndra lærdu túngumála, í hverjum hann nádi svo mikilli fullkomnun, ad eg veit ecki hér [60]) þar í hans jafnoka, sídan Páll Prestur Gunnarsson létst. Í Heimsspekinnar reglum var hann fárra eptirbátur. Í Gudfrædi, fornfrædum Íslands og fornum qvedskap, med þeim betri. Í Búnadar-frædum og búsýslun med þeim bestu. Í Lærdóms verkum hefir hann þó lítid látid eptir sig skrifad. Á sinu 67da alдurs ári samanskrifadi hann Ágrip af nockrum Dana Forn-Köngingum, og uppruna Nordurálfu innbúa, ad nockru leiti eptir Súhm, einnig snéri hann á íslendsk ljód nockrum af *Horatii* Qvædum, hvar á medal þessu, sem hann héldt mikid af: *Beatus ille qvi procul negotiis, etc.* Vid burtkollun hvílíks Hefdingja þókti drjúpa sveit sú, í hverri hann bjó.

[60]) Nefnil. í Dala- eda Snæfellsness - Sýslum

A innri Lík-kistu hans var, ad Erfingja tilhlutun, lagdur stór Silfur-skjøldur, med á grefnu þessu eptirskrifudu letri:

---

H. H.
BENEDIKT. BOGASONUR.
Fæddur XXVI. Apr. MDCCXLIX.
Heidurlega. útskrifadur. frá. SKALHOLTS.
Skóla. Arid. MDCCLXX.
Giptist. MDCCLXXI.
Deydi. XXVI Maji. MDCCCXIX.
Madur.
Dygdaudugur. gódgjördasamur. vel-lærdur.
Stundadi. sína. og. annara. farsæld.
Hans mun. af. mörgum sárt saknad.
Og. Minning. Hans. æ. blessud.

---

Af Erfingjum var útvegadur og innkeyptr úr frá Kaupmannahøfn stór Líksteinn af Marmara yfir Leidid, med þessu letri:

---

HÉR. UNDIR. HVILIR.
BENEDIKT. BOGASONUR.

